mín hjartans gledi, lyst og sálar fódur.
Vegferdar þó vonda reyni eg daga,
veit eg þetta allt mun sídar laga,
Í Gosen himna, Guds Son dýrdar frægur,
gjøraſt mér þá horfin rauna-dægur.
Fús vil eg því fødur húsa leita,
af feitum kálfi saðníng mun hann veita.
Utsóa þó arfi hans eg nædi,
eflaust mun hann géfa mér dýrdar klædi,
þó ad barns nafn þurfi hann mér ei veita,
Præll hans kýs eg grátfeginn ad heita.
Fullt mitt hjarta fyrir þér jafnan standi,
Fadir, Sonur og Gud heilagur Andi!
Fullt af ydran, fullt af ástar trega,
fullt af trú og dygdum alla vega.
Fyll mig krapti fullnustunnar þinnar,
Fullkomnari sáluhjálpar minnar.
Fullkomin þín forþénustu prýdi,
Fullkomnunar dýrd mig sídar skrýdi.

## Sjøunda Ordid.

Sól sinn anda Frelsarinn Guds í hendur,
følur á krossi því nærst vard grendur.

Hjartað stúngið hans var midt í sundur,
hverju gégna, Jesú minn! þau undur?
Sannlega má mitt sundur rifna hjarta,
sem Musteris fór tjaldið í parta.
Er nú, sál mín! ockar Jesús dauður?
Ut af mætti eg falla því á hauður.
Dug minni enn Daníel varð fordum,
þá Drottinn talaði við hann sáttar orðum;
Og Manoha, sem meinti sig að deya.
Mikið er Jesú, eptir þig að þreya.
O! að eg mætti ört upp héðan leysa,
og með þér í dýrð himneska reysa!
Æ! hvör mun mig oki svipta nauða,
og aumann frelsa af líkham þessa dauða?
svo sem hjörtur svölun girnist fánga,
sálu mína allteins til þín lángar.
Því það góða gjöra sem eg skyldi,
gét eg ecki, Jesú minn! þó vildi.
Við mig loðir vondskan meir enn bæri,
og villir fyrir mér lífsins sjónar færi.
Heims af lúa og hjartans ángri saddur,
hér em eg milli vonar og ótta staddur.
Æ! mig lángar ósédjandi hugar,
upp í hæð því sorgin svekt að bugar.

O! ad þú vildir ofan um himna gánga,
og mig leysa bundinn hér þinn fánga.
En medan stundin mín er ecki ad deya,
mænandi til himins vil eg þreya.
J blód-undum, blessadi Jesú! þínum,
og bidja um vægd á syndagjöldum mínum.
Grunda, sál mín! gjör tídindin þessi,
Gud í Kristó deyr á hördum krossi.
Ástmenn Jesú allir harma og gráta,
álengdar, sem vissu hans qvöl úr máta.
O mín sál! ef eckert tár þitt hrinur,
ætlar þú ad Jesús sé þinn vinur?
Hinn heilagasti heljin kannar sára,
hvernin skyldi sekur bindast tára.
Minna var þad Móses Guds mann deydi,
í mörk, þó fólkid lengi eptir hann þreydi.
Minna ad Davíd margar konur þrádi,
minna þegar hann barnid gráta nádi.
Minna þá hann mesta vin sinn þreydi.
Minna þó ad Absalon hans deydi.
Minna ad Agar mæddist yfir syni,
minna þó vér grátum holla vini:
Eingin hefur þó ordsök til ad gráta,
eins og eg, þad skyldt er mér ad játa.

Því öllum meira eg hefi syndir framið,
æ hvað hafa þær Jesúm nýst og kramið!
Hærstu náðar hylli má það lýsa,
hann mér segir þeirra qvittun vísa.
Jeg hefi rjóður, Jónæ fegra hlotið,
Jesús er mitt einka varnar flotið.
Opið stár hans elsku hjartað góða,
Arma rauða gjörir hann mér að bjóða.
Hans er nafnið: hetja, ráð og kraptur,
hann kann sig af dauða að reysa upp aptur.
Faðir eilífur, friðar höfðíngi þægur,
fyrr varstú enn nockurt veraldar dægur.
Þú laukst upp munni lambi hvörju frægri,
líka bók á Jóhannis sjónar dægri.
Heldur vil eg hjá þér vera í sorgum,
enn herrum lands þó ríkum stýri borgum;
Fari allt það sem fánýtt er á jörðu,
það frelsar ecki af dauðans kísi hörðu.
Híngað fyrr í heiminn barst eg nakinn,
hryggur, sár af móður-lísi flakinn.
Sá mig þá af synda-böndum leysti,
saddi, græddi, honum eg einum treysti.
Þó í dauðans dymmum rási eg skugga,
Drottins nálægð kann mig sætt að hugga.

Þó qveini eg stundum kurrandi sem dúfa,
mig kjætir Jesús meina bótin ljúfa;
Þó í ofni þjáninganna eg lendi,
þadan leidir Gud mig sinni hendi.
Þó búi eg enn vid Babýlons vatna hljóminn,
ber ad senn, eg heyri dýrdar róminn.
Upp, upp, sál mín! elskhuga þínum móti,
inn til þín svo líf hans dauda fljóti.
Líkt sem fordum lúin dúfa Nóa,
leitum ockur í hans hendi fróa.
Eins og brjóstin barnid sýgur þyrsta,
bergjum saft úr undum Jesú rista.
Svo sem Fýllinn sig vid eykur stydur,
Sannleik Jesú höldum ockur vidur.
Sem einn hjörtur sund-lúinn vill breyta,
Sigur-styrks af Jesú gjörum leita.
Sem Nautilus svefn-berginu áhángir,
sækjum traust og verd í Jesú fángi.
Tökum ockur tilfinníng og líka,
af teiknum þeim er qvöl hans mædu-ríka,
vitnudu, sem og valdid maktar hærsta,
viknadi allt med harma deilíng stærsta.
Jörd titrandi jafnan mig til-leidi,
Jesú minn! ad hrædast födur þíns reidi.

Bjørgin þau, er byrtust víða klofna,
blygdi og ermstri hjartad mitt stein dofna.
Lífgun daudra líf: hressi minn anda,
af lasta:grøf svo nædi eg upp ad standa.
Ydran þeirra er óskudu þér dauda,
Ydranar mér veki lyst ótrauda.
Sveipum nú med sinnis æru bjarta,
Sál mín! Jesú lík í ockar hjarta.
Yfir honum ætíd skulum vaka,
svo einginn kunni hann frá ockur ad taka.
Sarons rós og Zíons steinninn frídi,
þig segi eg betri enn þúsund veralda prýdi.
Upp, upp, sál mín! upp skulum vid fljúga,
í opid Jesú hjarta og þadan sjúga,
allt þad sem ad ángráds þørfin krefur,
því alla hluti Jesús minn til hefur.
Jeg gledst meir ad Jesús slapp úr kisi,
enn Jacob þegar son sinn vissi á lísi.
Hér er Jesú hjá þér gott ad vera,
Hjartans mína tjald:búd vil eg þér gjøra.
Mun þad anda míns líkþrá umbreyta,
meir enn Jórdans Naaman kunni veita,
Því betur enn dýkis bad er eugill hrærir,
Blódid Jesú heilsugjøf mér tærir.

Davíd kátur Drottins ørk lék nærri,
dægilegri gledi er þetta og stærri.
Hann qvadst gladur húss Drottins til gánga,
hér má eg þó sætari unad fánga.
Þó med Páli þurfi eg margt ad líða,
það er vel, því senn mun búid ad stríða.
Skeid lífdaga skjótt mun komid á enda,
í skaranum dýrdar fæ eg þá ad lenda.
Kórónu mun Kristur mér þar veita,
og klædi hrein, sem Jósúam vid nam breyta.
En ecki mér þó einum, Páll réd svara,
øllum heldur rétt: trúadra skara.
Gud himnanna géfi oss þad ad hljóta,
og gjædsku sinnar eilíflega ad njóta.
Honum prís og heidur verdi samin,
hér í nád og sídar um eilífd, A m e n!



# Sidari Parturinn

inniheldur

## Versa-Flock í Sam-sætum

tilætladann,

## Óskaljód, Æruminníngar Vers,

og annad fleira smávegis.

## Versa-Flockur,

sem brúkud hafa verid í Brúdkaupum og Erfis-dryckjum.

### Fyrir Brúdargángi.

### 1. Vers.

Lagid: Lofid Gud! Lofid hann hvørr sem kann.

Allt vort rád, áform og háttalag, í fridi og nád, farsæli nótt sem dag, græðarans Jesú gjædskan þýd, og géfi þad bædi, til Födursins dýrdar fyrr og síd, framqvæmast nædi: Kollum grid, af kraptarins sæti; fell-

um við, Frelsarinn gjæti, øllum lið, lýknin hans bæti, inngáng, framgáng, útgáng vorn, haldi í snildar háttum rétt, heilagur Andi, valdi skylda sáttum sett, sóma styrkjandi.

## 2. Vers.

Lagið: Jesús, sem að oss frelsaði.

Lifandi Jesú! láttu vort, lífs skeiðið jafnan renna, þángað sem liggur lífsins port, lífið svo mættum kénna, til þessa lífsins þrautum frá, þitt líf oss fordum rédi, unn voru lífi æ þér hjá, eilífrar brúdkaups gledi.

## 3. Vers.

Lagið: Upphef eg augun min.

Af hug þess óskum vær, allir til samans hér, fylgi ydkur fjær og nær, frægur Guds Engla her, allri lífs eydi neyd, ástúdlegt verndar lid, gángid svo greida leid, í græðarans Jesú frið.

## 4. Vers.

Með sama lag.

Guds Fodurs gjædsku dád, græðarans voldug hlíf, og heilags Anda nád, ydkar bevari líf, gángið í gódum frid, Gudi befaladar, hans greidl hjálprædid, hvert spor til fagnadar.

### 5. Vers.

Lagid: Himna rós, leid og ljós.

Drottins nád, lífs um lád, láti ſkarta, hverju ſinni, úti og inni, eg bid: Yckur frægd, yndis hægd og audnu blóma, gángid þid, Guds í frid, gjæddar ſóma.

### 6. Vers.

Lagid: Sjá þig, min ſál! um kríng.

Födurſins fridar=dád, Frelſarans Jeſú nád, og heilags Anda gjædi, öllum lífs=heill=um gjædi, yckur ſvo aldrei þrotni, allskonar hægd í Drottni.

### 7. Vers.

Lagid: Þér Drottinn þacka eg.

Frelſarans fögur nád, fridur og hjálprædi, med hærſtri hlífdar dád, hans Engla jafnan ſé, á öllum yckar vegum, ſálu og lífi ſætt ſkínandi.

---

## Þegar Hjónaſkál er innborin.

Lagid: Herra! þér ſkal heidur og vyrding greida.

Herra Gud! ſem hjónabandid ſettir, og hefur þad bleſsad fram yfir adrar ſtéttir,

þínum rádum, gjørst adgádum, géfdu bádum, fylgja í nádum eptir.

## Fyrir Hjónaskálum vandalausra.

### 1. V e r s.

Lagid: Þá Ísrael fór af Egyptó.

O Drottinn Gud! sem elsku og nád, audsýnir þeim er kjærleiks dád, halda med heidri sømnum, útvalin brúd-hjón æruverd, andar og lífsins gjæfu mergd, høud þín begáfi hrønnum; láttu þau gánga út og inn, í þínum fridi, Drottinn minn! veittu þeim styrk í vandanum, vert þeirra líf í daudanum; æ géf þeim heppnist unun stór, í eilífum dýrdar Jórsala kór, Halelúja! Halelúja!

### 2. V e r s.

Lagid: Ris upp Drottni dýrd.

Nádin gjædsku gjørn, Guds á himna trón, yckur umfadmi, æru dygdug hjón, eckért ami tál, ord, verk, sjón, heyrn, mál, og allt hvad áhrærir, yckar líf og sál; anníst alla stund, almáttugur Gud, í vøku og værum blund, verid marg blessud; Frelsarans

fridur, fagur veitist ydur, hér, og um alla, eilífd haldist vidur.

### 3. V e r s.

Lagid: O Gud vor Fadir! sem í himnariki ert.

Sá Gud er ædstur setti í fyrstu sinni hjørd, hjónaband veglegt heims á lád, helgum prýdt nádar gjædum, yckar sé farsæld, audna, líf og yndi á jørd, inngeingid stand med allri dád, umgyrdi krapt af hædum; heilags kjærleika ljómi list, láng-gjædar æfi-mundir, yckar á milli, en ømun bist, øll hverfi lífs um stundir, frelsid hérvistar fullkomnist, fridarins merkjum undir.

### 4. V e r s.

Lagid: Eilíst lifid er ækilegt.

Unni yckur Jesú eilíf nád, í hans miskunar skaut, innvafin séud æ med dád, eingin svo grandi þraut, hjónabands trygdar heiløg ást, haldist med æru og spekt, ljós yckar dygda ljómi skárst, lof eblid Drottni þeckt, allskyns farsældar hlýum hag, hann yckur gjædi nótt sem dag, inn til þess fridar eilífa nægd, erfid á himna-trón, hvar mæda, kíf og mein eru lægd; mettud af dýrdar sjón, lifid þar æ med yndis hægd, andar vid skilin tjón.

5. Vers.

Med sama Lag.

Í Jesú nafni eg þess bid, alleina sælann Gud! yckur brúdhjónum leggi lid, líknar-vild hans blessud, undir hans þýdum ástar væng, yndi, vernd, heill og nád, í gaungu, stødu, sessi og sæng, sé yckur jafnan tjád; framgángid svo med lífsins lyst, lofid og prísid Jesúm Krist, allskyns mannrauna mýki þraut, hans miskunar høndin gód, fram til þess helga fridar braut, fráskilin hrigdar mód, inngángid beint í Abrahams skaut, þar útvalin fagnar þjód.

6. Vers.

Lagid: Lifs reglur hollar heyrid enn.

Allskyns farsældum æru og dygd, umfadmist brúdhjónin, þróist í Gudi þeirra trygd, þryckist øll hørmúngin, von og þolgjædi verji slygd, vid andar skilnadinn, hrópi þau inn í himna bygd, hver Jesú blóddropinn.

7. Vers.

Lagid: Herra! þér skal heidur og vyrdíng greida.

Hæckist yckar heidur og stod án galla, hlýdi bádum fridur og gledin snjalla, safnist

trygdir, dafni dygdir, dofni hrygdir, sofni stygdir allar.

### 8. V e r s.

Med sama lag.

Leingist yckur líf med heilsu blóma, lucku, dádum, yndi, frid og sóma, heppin strídid, stodug bídid, standid prídid, Guds innlídid ljóma.

### 9. V e r s.

Lagid: Far heimur farsæll.

Lifid æ lof sæl! lifandi Gudi, svo hjartans yndæl, ad allar hans trygdir og ásthylli neit, á yckur skíni, sem morgun sól heit, heid-geisla rósanna hellir á krans, himnar gési ans, himnar gési ans.

---

## Foreldranna Brúdkaups vers.

### 1. V e r s.

Lagid: Upphef eg augun mín.

Blessa þú børnin mín, blessada mildin há, byggi þeim blessan þín, blessad hús jørdu á, blessadu trygda band, blessadu verk og mál, blessa nú beggja stand, blessadu líf og sál!

## 2. Vers.

Lagid: Heidrum vér Gud af hug' og sál!

Himneski fadir! höndin þín, högunum dilli barna mín, audga þau vitsku, aldri og nád, aunastu þeirra líf og ráð, elska þín bid eg einnig sé, ástvina þeirra hjálprædi, alla naudþurft uppfyllandi.

## 3. Vers.

Med sama lag.

Börnanna minna blessa þú, brunnur miskunar, ó Jesú! líf, önd, ástvini, heidur, hag., heilsu, ráð, efni, verkalag, allskonar dygdir þróa þeim, þau ad afdrifnum sorgareym, set vid þitt bord í sællri heim.

## 4. Vers.

Lagid: Nú bid eg Gud þú nádir mig.

Jesú brjóst-harmur, svida sár, sveiti, qvöl, undir, bæn og tár, öll fyrir-bón og eilíf trygd, allann frid, blessan, heidur og dygd, sálar fögnud og synda bót, sigur óvinum fast á mót, huggun og þol í hverskyns pín, hærst ykur veiti, börnin mín!

5. Vers.

Lagid: Uppá fjallid Jesús vendi.

Blóds og teingda børnum mínum, blídi Jesú! veittu lid, út-ryck þeim af ángurs pínum, allar syndir qvitta vid, ver þau undir vængjum þínum, veit svo loksins himna frid.



## Barnanna Brúdkaups vers.

1. Vers.

Lagid: Mikilli farsæld mætir sá.

Míns kjæra Fødur, mildi þín, minn Drottinn! ebli hægd, æru fróma stjúp-módur mín, mettadu sóma nægd, heilagt inngeingid hjóna-band, hér í stad blessa þeim, æ medan lífsins leidar stand; lénar í þessum heim, innbyrdis frid og eindrægni, elsku, von, trú og gudrækni, láttu þau styrkja bædi best, blóds undir merkjum þín, géf þeim ydrunar gyrnd og frest, géd-fró og þol í pín, sídan þá glasid lífs er lest, lifendra gledi vín.

2. Vers.

Lagid: Heidrum vér Gud af hug og sál.

Allskonar blessan andga þú, elskulegasti

minn Jesú! Fødur þíns undir fridar krans, Fødur míns rád og qvinnu hans, bestu manndygdum bædi prýd, blessada géf þeim sælu tíd, eptir hérvistar unnid stríd.

3. V e r s.

Lagid: A einn Gud vil eg trúa.

Láttu gjøf líknar þinnar, lifandi Gud í himna-rann! unnusta módur minnar, mér í Fødur-stad stickadann, alla tíd endurnæra, andgadu beggja rád, hverju sem heitir æra, hyrdir og eykur dád; synda bót, sálar fridinn, samvitsku rósemi, veittu þeim lífs, en lidin, leid heim í þitt ríki.

4. V e r s.

Lagid: O vér syndum setnir.

Blessa þú, Gud minn gódur! gjørfamid egta rád, stjúp-fødur míns og módur, med þinnar gjædsku dád; veittu þeim værd og yndi, vernda þau nótt sem dag; elska þín ad sér byndi, allann þeirra lífs hag, géf styrk og þol í þraut, þau leid um fridar braut, inn í Abrahams skaut.

5. V e r s.

Lagid: Þá linnir hér min líkhams víst.

Foreldra minna fundinn hag, farsæl þú,

Jesú gódi! nádar hønd þín um nótt og dag, nægstar þeim heillir bjódi. Æ! gef þau lifi í ást og trú, egta-stand þeirra blessa þú, veit hægd, en varna módi.



# Systkyna og Ættmanna Brúd-kaups vers.

## 1. Vers.

Lagid: Á einn Gud vil eg trúa.

Guds hjarta gjædskan fróma, gefi yckur nægst af krapti sín, hærstann frid, heill og sóma, hjartans ástúdleg systkyn mín! Egta-bands edla trygdir, elskan hans vardveiti, allar andlegar dygdir, innplanti sálunni; brot qvitt og bót á mædum, bádum eg yckur kýs, sídan á himna hædum, heilag-ann sælu prís.

## 2. Vers.

Lagid: Upphef eg augun mín.

Gefi yckur gledi og frid, Gud sem á hæd-um skín, al-dygdum audgist þid, ástúdleg systkyn mín, trygd haldi kjærleiks kaup, kef-

jiſt allt rauna ſafn, inn til þeſs æfi-hlaup, endid í Jeſú nafn.

### 3. V e r s.

Lagid: Ris upp, Drottni dýrd.

Guds á himna hæd, heiløg vísdóms nád, ſyſtkyn mín ſælu, ſendi yckur hjálpar rád, bleſsi trygdaband, beggja fylli ſtand, heill, áſtum, yndi, ei ſvo kénni grand; Drottins elſka dýr, dygdum krýni ſál, hreſsi, bleſsi hýr, hyggju verk og mál, líſs leidir allar, láti ſídan falla, tryggvar med æru, til Iſraels fjalla.

### 4. V e r s.

Lagid: Hærſti Gud Herra mildi.

Lucku med líſs føgnudi, lofstýr og æru ſkin, verdi yckur veitt af Gudi, virdugleg ætt-ſyſtkyn, hjónabands helgar trygdir, heit vermi Drottins áſt, lifandi lýſi dygdir, ljóma Guds eptir hrygdir, gledji yckur ſkod-un ſkárſt.

### 5. V e r s.

Lagid: Má eg ólucku ei móti ſtá.

Syſtkyna minna ſæmd og ráð, ſætuſtu náð, føgnud og fridar gjædum, begáfa Drottinn þrennur þú; þeim æ og nú, forda

synd, fári og mædum, innbyrdis trygd, allskonar dygd, lof, lán og fé, þeim legg í tje, hólpinn gjør loks á hædum.

### 6. Vers.

Lagid: Mikilli farsæld mætir sá.

Festi nú Jesú fridur og náð, fadmløgum kraptar sín, yckar líf, heidur, ønd og ráð, elskuleg systkyn mín, hans ástar gjæda logandi ljós, lýsi yckur jørdu á. Lífsins kjørvndi, heill og hrós, hreppid, en einga þrá; unni farsældum yckar merk, allshattud Drottins handaverk, ratist æ sefud rauna goll, ríki mann-dygda blóm, lifid svo blessud árin oll, ást-heit og trygda fróm, fagnandi loks í himna-høll, heiløgum eptir dóm.

---

## Brúdgumans eigid vers.

Med sama lag.

Herra sem kosid hefur mér, hjúskapar veglegt ráð, veittu mér styrk, ad vel sem ber, vilja þíns fengi eg gád, kroptuga von og kjærleiks dygd, kristinn frid, helga trú, gjædsku, hreinlyndi, glæsta trygd, Gud! mér innplanta þú; æru, kjør, eignir, minni, mál,

mitt ráð, athafnir, líf og sál, fel eg himneskri forsjá þín, forða mér glæpum við, tilgéfna láttu misgjörð mín, mæddum veit þolgæðið, einninn, að deyfðri dauðans pín, dýrðlegann himna frið.

## Brúðarinnar.

Með sama lag.

Eg þig og beiði ó Jesú! æ vertu styrkur minn, að eg í hjartans ást og trú, umfaðmi viljann þinn, hógværð, skírlífi, hreina trygð, heilagann frið og spekt, já allskyns sóma, æru og dygð, unn mér að stunda frekt; bjóð þú að himnesk blessan þín, bevari gjörvöll efnin mín, og öllu því mér ama kann, umvendi svo til lags, helið þá særir hyggju rann, haf þú í friði strax, mig og ástkjærann egtamann, til eilífs gleði dags.



## Eckjunnar Brúðkaups vers.

Með sama lag.

Eilífi Guð! eg þacka' þér, þitt ráð sem hulið var, sorganna braut þú sýndir mér, síðan veg huggunar. Taktu nú enn við

máli mín, mitt ráð og lífsins hag, fyrirheitinni forsjá þín, faðmaðu nótt og dag. Lát mig þér hærstann heiður tjá, hjónabands skyldu þar með gá, í allri mæðu legg mér lið, fyrir Lausnarann Jesúm Krist, hærstu mann-dygðir haldt mig við, hrek synda gjöldin ytst. Ond minni géf svo eilífann frið, eptir þessa heims vist.



## Eiginqiptrar eckju vers.

Með sama lag.

Mildasti Guð! sem mér hefur bætt, missir ástvina þann, sem áður hafði gédið grætt, en gleðina sett í bann; sníi þú enn ástar augum þín, að mér um dag og nótt, breið yfir hús og börnin mín, blessaða friðar gnótt, farsæl mín kjör til fagnaðar, fyrirgéfðu mér syndirnar, lát ecki djöful, hold né heim, hrekja mig þér í frá; sveipa qvenndygðum sinnu geim, sút einga lát ofþjá, ønd mína dýrðar seðji seim, sjón þíns auglitis há.

---

## Brúðhjónanna sameginlegt vers.

### 1. V e r s.

Lagið: Eilíst lifið er æskilegt.

Ó Drottinn Guð! sem hér í heim, hjóna-

band ſkickadir, allra lífs heilla ſætum ſeim, ſídan begáfadir, bædi famhuga bidjum þig, bleſsud heill ſyndugs manns, fær ockar øll á fridar ſtig, fótſpor til himna ranns, mýk allann qvída, mein og grønd, miſkun þín hjúkri lífi og ønd, æ géf til nádar al-eblid, innbyrdis ræckjum ſkárſt, hjartans eindrægni, hógvært géd, hreinlífi, trygd og áſt, unn ockur ſídan æ þér med, í eilífri dýrd ad ſjáſt.

## 2. Vers.

Lagid: Lofid Gud! lofid hann hver ſem kann.

Ó Jeſú! ad þér í miſkun tak, ockur nú, og yfir lífs heillum vak, gjervøll rád og efnin øll, áſt þín vidhreſsi, ræti frid, en rými gell, rík hogum bleſsi. Heituſt trygd, hjartans ei þjáiſt, neytuſt dygd, nær ockur ſjáiſt, eitrud ſtygd, øll í burt máiſt. Láttu, Drottinn! líf og ønd, hjá þér ſídan hljóta not, himneſkrar ſælu, hjá þér ſídan hljóta not, himneſkrar ſælu.

## 3. Vers.

Lagid: Upphef eg augum mín.

Gud Drottinn, gjædſku hreinn! ſem gefgadir ektaſtand, bleſsa þú ockur einn, inngengid hjónaband; veit yndi, hafna hrygd,

heyr bænir, lýkn ei tef, þryck syndum, þróa dygd, þol magna, sælu gef.

## Fyrir Kóngs skál.

### 1. Vers.

Lagid: Mikilli farsæld mætir sá.

Voldugi Fadir! vernda þú, vors Konúngs hásætid, haldt honum æ vid helga trú, hans ríkjum veittu frid, styrkur þíns anda stidji rétt, stjórnendur kristninnar, sérhver ad lifi í sinni stétt, sem þitt bod útvísar.. Varna stirjold og villuróm, vidhaltu þínum kristinn-dóm, heilaga trú og hreinann sid, hel-sting Andskotans megn, blessa vort land og bygdar-lid, bistur oss aldrei hegn; handleid þitt fólk í himna-frid, heims alla mædu gégn.

### 2. Vers.

Lagid: Upphef eg augun mín.

Auk þú med æru plag, allskonar lífs fögnud, Kóngsins Hátignar hag, heilagi sterki Gud! hans ríkis rád og lønd, réttum frid audga þú, veit engin villu grønd, véli sann-helga trú.

### 3. Vers.

Lagið: Á einn Guð vil eg trúa.

Gjæðska þín, Guð! bevari, gjørvallann Kóngsins tignar-hag, lýð hans og lønd forsvari, láng-gjæðann veiti stjórnar dag, yfir- og undir-mønnum, efli frið, heill og náð, styrk í embættis ønnum, einnig kostgjæfið ráð, þína dýrð, sinn veg-séma, sið og hag Føður-lands, efla með æru fróma, øruggir til dauðans.

### 4. Vers.

Lagið: O vér syndum setnir.

Kristi krapta gjæði, Kóngsins tignar stól, stiðji, blessi bæði, besta hlífðar skjól, við óvina stygðum, veri Drottinn hans, dyrsi í øllum dygðum, dýrann Føður lands, allt hans undir-ráð, andgi frið og náð, Drottins Jesú dáð.

### 5. Vers.

Lagið: Blíði Guð! børnum þínum ei gleym.

Kóngsins ráð, kyn og þjóð ríkisins, styrk í náð, sterki Guð friðarins! veit hans hjarta að vilja þín, ver øllu grandi, géf að skyldu gjæti sín, gégn hyrð í landi, kristinndóms,

kjor-heill svo nædi, fridar blóms, fylgja lát gjædi, villu-róms, varna skadrædi; voru landi veit forsvar, blída rósemd, blessan auds, og braud lífsins orda, blída rósemd, blessan auds, og braud lífsins orda.

# Vers til heilags Anda.

## 1. Vers.

Lagid: Eilíft lífid er æskilegt.

Ei sæ eg, sannleiks Andinn kjær! upp-reiknad gjafir þín, ómetanlegar eru þær, øllum skilníngi mín, þú gefur hjartans hægd og kyrd, huggun og þolgjædi, kallar, upp-lýsir, helgar hyrd, Herrans á jørdinni, rétt-ann kjærleika ríkkar þú, rætir Guds elsku, von og trú, arfleifdar pantur útvøldum, upptendrar bænrækni, sannsæríng heimi set-ur um, synd, dóm og réttlæti, ver øllum sálar vandrædum; vegsemd þín eilíf sé.

## 2. Vers.

Lagid: Blídi Gud! børnum þínum ei gleym.

Ástar þín, Andi Guds heilagi! sæta vín, send oss af hædinni, Drottins Jesú dreyra

lind, og drepum Guds nádar, samanbrrl-
ad svo med hind, ad sálirnar þjádar, lifni
hradt, lofgjørd frammberi, blídt og stadt,
bæn-hreisar veri, dansi gladt, í Drottins
mustéri, allann føgnud ebli þó, brúdhjón-
anna brjósti mest, í brennheitum trygdum,
brúd-hjónanna brjósti mest, í brennheitum
trygdum.

### 3. Vers.

Lagid: Heidur og háleit æra.

Kom þú, kjærleiks Andi! kraptur Guds af
hæd, oss í nád uppfyllandi, alla frid-heillum
gjæd, brúdhjóna beggja trygdir, blómgi þitt
ástar-ljós, auk þeim allskonar dygdir, yndi,
farsæld og hrós; kristninnar heims-um hríng,
haldtu vid, Gud! eining, viltum sért veg-
lýsing.

### 4. Vers.

Lagid: Uppá fjallid Jesús vendi.

Fyrirheitinn fridar Andi, fullur nádar, sé
med oss, brúdhjónanna brjóst helgandi, bád-
um ástar gési koss, líkni þeim í lífsins standi,
lidnum veiti sælu hnoss.

### 5. Vers.

Lagid: Heidrum vér Gud! af hug' og sál.

Víngad innbodin hýr og skjær, himneska

dúfan, kom þú nær, hreinsa vort geð, en helga sál, hrestu þánkana, styrktu mál, tendra bæn, von og trúar safn, trngdanna látlu ríkja dafn, eg þig grátbæni í Jesú nafn.

### 6. V e r s.

Lagið: Upphef eg augun mín.

Minni sál mjög yndæll, megtugur ástar hýr, kalladur, kom þú sæll, kraptarins Andi skír! helga, stið, hátt upplýs, hjörtu vor allra senn, fögnuð, heill, frið og prís, festu við brúðhjónin.



## Fyrir Brúðar sæng.

### 1. V e r s.

Lagið: Á einn Guð vil eg trúa.

Heppinn sé yðkar hagur, heiðurleg brúðhjón! alla stund, Föðursins geisli fagur, færi yðkur ljós í vöku og blund, qvíða gjörvallann kéfji, kjör=yndið fylli mest, vodunum ástar vefji, værðar svo njótið best, friðarins björt ábreiða, brotin að yðkar sæng, vermi lífs gleði greiða, Guðs undir hlífðar væng,

## 2. Vers.

Lagið: Sólin upprunnin er.

Sofið nú sætt í frið, signuð brúðhjónin! Guðs hlífðar vængi við, vendist hug-sjónin, hýr, heilskygn að, hæðum Israels fjalla, brjóst Jesú blóð-døggvað, bjóði' yckur af þeim stað, andar værð alla.

## 3. Vers.

Lagið: Blíði Guð! børnum þínum ei gleym.

Hann sem bjó, hjónabands vil-føgnuð, værð og ró, veiti yckur Drottinn Guð! á brjóstum andar brúðgumans, blundið í náðum, lýknar hjarta ljósið hans, lýsi yckur báðum; eining þrenn, eining við hressi, faðmløg tvenn, faðmur hans blessi, vin-kossinn, viðminnist þessi, sæng, ábreiða, svæfli með, veri Drottins voldug hønd, en vørn engla tjaldið, veri Drottins voldug hønd, en vørn engla tjaldið.

## 4. Vers.

Lagið: Upphef eg augun mín.

Beð yckarn brúðhjón hýr, bevari Drottinn hér, faðmur hans faðmi dýr, faðmløg yckar að sér, blundið svo blíðt og rótt, beggja sál

medlætist, gefi yckur góða nótt, Guð fyrir Jesúm Krist!

### 5. Vers.

Lagið: Hærsti Guð Herra mildi.

Einn Guð, sem yckar trygðum, eina sæng búa réð, við allskyns voða og stygðum, verndi yckar hjóna=beð! blessuð í trygða=bandi, blundið nú vært og rótt, frásskilin friðar grandi, Faðir, Sonur og Andi, gefi yckur góða nótt!



## Valet frá Brúdkaupum.

### 1. Vers.

Lagið: Eilíst lífið er æskilegt.

Guði sé dýrð sem gaf oss enn, góð býti samvista, kjætti vorn hug við kjørin tvenn, kjærleiks og veitinga; þyggi nú hjartans þack=ir mín, þýðir boðs=ráðendur, eins fyrir dygð=ar atvik sín, allir nærverendur; yður far=sældar óskum með, eg í vinsemi þannig qveð: gleðji yður alla, góðir menn, Guð fyrir Jesúm Krist! skipi svo dvøl og skilnaðinn, skeið lífs=ins bevarist, inn til þess hittumst allir senn, í eilífri dýrðar vist.

2. Vers.

Lagid: A einn Gud vil eg trúa.

Sá Gud oss safna rédi, saman til funda hér í stad, holla svo hrepptum gledi, hefur og settann vorn skilnad, verduga virding hljóti! veglegann selskapinn, qved eg af kjærleiks hóti, kyssi Gud brúdhjónin, hans kraptar hærsti fridur, helgasta nád og vorn, margfaldist yfir ydur, elskuleg Drottins börn.

---

# Eptirfylgjandi vers tilheyra Erfisdryckjum.

## Fyrir minníngarskálum Foreldra.

1. Vers.

Lagid: Þér Drottinn þacka eg.

Fadir minn signsæll, sofdu nú blessadur! þér laungum þókti indæll, þíns Jesú blódfadmur, því var hann þinni sálu, midt í daudanum mjúkastur.

2. Eja! þitt ángur hvarf, ærunnar skýn forprís, þína dygd eg í arf, audæfum fram-

ar kýs, flýti nú Frelsarinn gódur, ockar samfundum í Paradís.

## 2. Vers.

Lagid: Avi! Avi! mig aumann mann.

O Fadir minn! Fadir minn! eg felli tár, af því nú, ad eg veit þú, ert ordinn nár, sem gladdir fyrr mín úngdóms ár, og elskadir mig í trygdum klár, þíns mér dauda svídur sár, svídur sár.

2. Dæmi nú, þá dygd og trú, mér Drottinn skjær, í arf sem hjá, þér sjálfur sá, var sí-frábær, þar til ángurs undin grær, og eg þig hitti, Fadir kjær! hægri Jesú hendi nær, hendi nær.

## 3. Vers.

Lagid: Þér Drottinn þacka eg.

Sofdu nú sorgum fjær, sæl í Guds akur mold, mín hjartans módir kjær! mun þitt forklárad hold, sídar um eilífd alla, blessad lifendra byggja fold.

2. Laung er nú lífsins eymd, lángt þér burthorfin frá, en sálin glødd og geymd, Guds fridar tróni hjá. O! ad eg fengi hid fyrsta, þig í føgnudi þeim ad sjá.

### 4. Vers.

Lagid: Upp, upp, mín sál.

Þó hér um sinn, kross bleiti kinn, kjætir þad hyggju slódir, eg kém til þín, þú ei til mín, þýdasta hjartans módir! æ ad stund sú, nálægdist nú, nædi eg takmarkinu, Jesú þín trygd, skýni mér skygd, skjærast í andlátinu.

### 5. Vers.

Lagid: Gudi lof skal ønd mín inna.

Gud sem fyrr gaf, og svifti, greidi nú hógum lagfæríng, vid mig í miskun skipti, munadarlausann vesæling; huggun, frid, heill og nádir, hérvistar alla tíd, forsvar og fridar dádir, færi mér nád hans blíd, veika trú virdist næra, vidhressi þjáda lund, sálar-heill sendi væra, sídan á dauda stund.

---

## Fyrir minníngarskálum Barna.

### 1. Vers.

Lagid: Heidur og háleit æra.

Gud sem mig ádur gjæddir, gódu lífs afqvæmi, kyrtli réttlætis klæddir, qvittad frá

mædunni, heim til þín hafdir sídan, í himneskt gledinnar ljós, beindu mér fadminn blídann, í bylgjum eymda sjós, ó Jesú! minnstu mín, í miskunar ydrum þín, loks þegar lífid dvín.

## 2. V e r s.

Lagid: Hvar mundi vera hjartad mitt.

Hof sé þér fridar Fadirinn trúr! sem færdir barnkynd mín, hérvistar mædu allri úr, í eilífa dýrd til þín, vertu nú hinna verndarmúr, vid djøfli, synd og pín, allt undir væramn andláts dúr, ákeink svo gledinnar vín.

## 3. V e r s.

Lagid: Upp, upp, mín sál.

O Drottinn Gud! sem í føgnud, eilífann tekid hefur, mitt afqvæmi, þitt þó væri, þad mína sorg ei tefur, kom nú sem fyrst, krossburdar víst, kaldri géf sælann enda, mótføllum hrind, minni barn=kind, mér unn svo hjá ad lenda.

# Fyrir minníngarskálum ættmanna og ástvina.

## 1. Vers.

Lagið: Þér Drottinn þacka eg.

Guð gaf og Guð aftók, Guð veri lofaður! Guð mína gleði jók, Guðs er nú, harmaður, af mér eptirþeyandi, ætt-bróðir minn og ástvinur.

2. Huggar þó hjartað mitt, hann í Guðs friðar borg, elur nú yndið sitt, alla viðskilinn sorg, fyrir blund hægann hafinn, héðann á lifendra lysti-torg.

3. Einn Guð sem ockar sætt, ástríki bróðir minn, fyrr batt, en gjörði grætt, géð mitt við skilnað þinn, hjálpi mér heims úr nauðum, til þín sem hraðast í himininn!

## 2. Vers.

Lagið: Blíði Guð! börnum þínum ei gleym.

Opnar und, ástúðleg minníng þín, við dauðans blund, dygðarík systir mín, elsku þína og aðhjúkrun, alla eg þreyi, til fullnaðar mér ei mun, mæðast sá tregi, fyrr enn Guð, forlögum breitir, og fögnuð, eilífann veitir, þar síðst ørvuð, sút, kinnar bleitir.

O ad eg sem allra fyrst, þángad numinn þrautum úr, þér mætti fagna, þángad numinn þrautum úr, þér mætti fagna!

## Sorgar vers Eckjumanns eptir sína qvinnu.

### 1. Vers.

Lagid: A einn Gud eg vil trúa.

Hægdu nú hjarta mínu, himneska nádar lindin góð! áſtar atlæti þínu, afþerra kinnum tára flód; mín er nú moldu kafin, medhjálp og augna lyst, en þó til heidurs hafin, í himneska dýrdar vist, veittu því værd, ó Herra! vel fóstra børnin smá, hvergi lát huggun þverra, hept alla neyd og þrá.

2. Géf ad eg gladur þreyi, gjæddur heiløgu þolgjædi, eptir þeim dýrdar degi, þá Drottinn, þú mitt hjálprædi, lætur mig fá ad finna, frelsi þar mædan dvín, og mín sæl egta qvinna, allri sól fegur skín, svoddan samfundar yndi, sídur þú undan drag, heldur géf hryggu lyndi, himneskann gledi dag.

## 2. Vers.

Lagid: Hærsti Gud Herra mildi.

Hrópa eg handar-vana, hugarins þjádur þín, álíttu mig einmana, miskunar augum þín, heilagi hjartans Fadir! hept gjörvöll rauna tár, öll mín kjör, heillum hladir, himneska dýrd adladir, sídan um eilíf ár.

## Eitt *Valet.*

Lagid: Sólin upprunnin er.

Hvíldu nú heilla sæl, hjartad mitt kjærast! þar engla dýrd yndæl, dyllar þér værast, hjá lambsins trón, laus vid öll mædu tárin, grand lífs og gjæfu tjón, Guds dýrdar mettud sjón, um eilíf árin.

2. Eg mun þig sídar sjá, sveipada gjædum, lifendra landi á, leystur af mædum, æ gledi stund, ó þau huggunar mæti! þegar eg fæ þinn fund, full-hressir þjáda lund, allt eptirlæti.

3. O Jesú! minnstu mín, mýk ebli nauda, fyrir blód-benjar þín, og beiskann dauda, legg högum lid, lát ecki miskun þverra, þraut vinni þolug bid, þar til eg eignast frid, hjá þér, minn Herra!

# Eckjunnar sorgar vers eptir sinn mann.

## I. Vers.

Lagid: Mikilli farsæld mætir sá.

Allsherjar Drottinn! aumka þig, yfir mitt sorgar stand, hel-skeiti daudans heiptarlig, hafa mér unnid grand, ástúdleg fallin er í mold, æru kóróna mín, skeikad lífs yndi skélfir hold, skilnadar sorg ei dvín; kom nú til hjálpar, Herra trúr! hrygdanna bøndum leys mig úr, þín føgur nádar fyrirheit, fyll øll á mínum hag, vid mig sem kjærast barn þitt breyt, bæt allskyns rauna lag, eptir hérvistar ánaud veit, eilífann gledi dag.

## 2. Vers.

Lagid: Gudi lof skal ønd mín inna.

Gud sem gladdir mitt sinni, þá gafst mér kjærann egta mann, og úr heims armædunni, í eilífa dýrd nú leiddir hann, styttu mér sorgar stundir, still æfi-raunirnar, ást þín á allar lundir, unni mér hjúkrunar, lát ei þolgjædi þverra, þar til eg fæ ad sjá, hans og þitt auglit, Herra! himnanna bygdum á.

### 3. Vers.

Lagið: Þá Israel fór af Egyptó.

O Drottinn Guð! sem af mér tókst, augnanna ljós, en mirkur jókst, í dauðans köldu kísi, sambúðar yndi sviptir hold, settir minn krans í græna mold, þyrmdu nú þjáðu lísi, tapaðann sýn ei trúskapinn, tak mig í náðar faðminn þinn, bevari hús og börnin mín, blessuð forsjónar mildin þín; unn oss, þá líssins ánand þver, í eilífri dýrð að sýngja þér, Halelúja! Halelúja!

### Eitt *Valet.*

Lagið: Má eg ólucku ei móti slá.

Lifðu nú sæll við lambsins stól, lángt fegri enn sól, heilagur, heppinn bæði! gleði það nægsta géfur mér, Guð veitti þér, eilíf unnnar gjæði, hans höndin klár, hefur þín tár, öll af-þerrað, í friðar stað, leiddann úr lífs ónæði.

2. Preyir mín hjartans þjáða lund, þá gleði stund, er þig mér aptur færir, og í Guðs friðar faðmínum, forklárudum, sætustu sambúð nærir. En meðan líf, kannar heims kíf, ástar eldinn, ó Jesú! þinn, brjóstinu bið eg tærir.

3. Öll þín fyrirheit ástúdleg, á allann veg, mér til miskunar komi, þolgjædis einnig drýgi dád, þín dýrdleg nád, svo aldrei eydist sómi; vertu min sól, værd, yndi, skjól, heill hjartanlig, haldt mér vid þig, í lífi, dauda og dómi.

## Fyrir syrgendra skálum.

### 1. Vers.

Lagid: Eilíft lífid er æskilegt.

Minn Gud! sem þinni miskun hétst, munadarleysíngum, og af-þerrud med ellu létst, eckjunnar tár fordum, sjádu nú þetta sorgar hús, sértu Gud naudstaddra, mýk þess ánaudir mildi-fús, marin bein um-reifa, himneskri læknirs hendi þín; hjörtunum géfdu svala vín, síns er ástvínar syrgja nú, sambúdar yndid misst, hogunum dillir þeirra þú, þolgjædis tem og lyst, lífsins vor allra leidum snú, loks inn í dýrdar vist.

### 2. Vers.

Lagid: Blídi Gud! bornum þínum ei gléym.

Minn Jesús! miskuni þessum hóp, líknarfús, lægandi stun og óp, eckjuna fadmi fast

ad sér, og forsvari børnin, þeirra sorgar-høgum hér, hans fylgi vørnin; grát þú ei, gudhrædda qvinna! þol og þrey, þessu mun-linna, ól þann mey, er æ skal þér sinna, því eilífum ertu Gudi gipt, sá þér géfur hønd vid hønd, hinni máttkari, sá þér géfur hønd vid hønd, hinni máttkari.

### 3. Vers.

Med sama lag.

Oll þín børn, annast þú, Drottinn kjær! heill og vørn, harmandi sálum fær; dreyra raudum døggva þá, dropum líf-æda, hjarta þíns, og huggun ljá, þeim hrygdirnar mæda; verndar múr, vert einstædíngum; Fadir trúr! fødurleysíngum, vid andláts dúr, eyd mót-lætíngum, allra þinna hér í heim; skugganum hnecktu skodun med, skínandi dýrdar, skugganum hnecktu skodun med, skínandi dýrdar.



## Minníngar qvedju vers.

Lagid: Sólin upprunnin er.

O þú hin sæla sál! sorgum af-lúda, sem beidst í bæn- forsjál, brúdgumans prúda, hvíl heillum gjædd, hans vidur dýrd marg-

falda, rós=björt af rannum gjædd, réttlæti Jesú klædd, um aldir alda.



## Andláts vers.

Lagið: Gud Fadir, Son og Andinn hreinn.

Lif=kroptug æda lindin þín, Lausnarinn Jesú kjær! öll hugar=mæda, eymd og pín, ángurs bót sé mér vær, himneskra gjæda heilsu vín, hjartanu blæda láttu mín, dapur þá daudinn slær.



## Vers til heilags Anda.

Lagid: O Jesú minn, eg finn, álídur hér.

Þú sanna ljós, líf=rós, lind gledinnar, Guds Andi klár! sem krossins tár, kinnum afþerrar, hygdu ad hörmum þinna, huggun lát þá finna, stödva kinn og qvein, styrk öll marin bein, yfir megn engann reyn, græd vort hid sídasta grafar mein.



## Vers til heilagrar Þrenníngar.

Lagid: O Gud, minn Herra! aumka mig.

Heilög Þrenníng sé há=blessud, heidrud,

lofud og marg=tignud, fyrir øll sín ástar-gjædi, andar og lífs hjálpræði! Fødurnum greidist fagurt lof, fyrir síns Sonar dýra gjøf; Syninum sæmdin mesta, er sigurinn gaf oss besta; Anda heiløgum æra og dýrd, af øllum túngum verdi skírd, fyrir sitt øblugt ástríki, æll heiløg Þrenníng tignud sé, um eilífar aldir alda.

---

*EPITHALAMIUM*

Til qvedid

## Síra Jóni Sigfússyni,

og Madame

## Þurídi Gudmundsdóttur.

7da Octóbris 1731.

Lagid: Upphef eg augun mín.

Aldin=gard ágjætann, ádur med hærstum prís, gjærdum grundvalladann, Gud skóp í Paradís, ílmandi allskonar, aldinis føgur blóm, plantadi þýdust þar, Þrenníng almættis frómr.

2. Eyk lífsins edla mæt, ein í þeim gardi stód, ávaxtar yfrid sæt, innir svo Ritníng

fród, Adam í heidri há, hér næst var skap-adur, til íbúdar einninn þá, Eden tak-markadur.

3. Fremdar hag fullkominn, fødurleg Drottins náð, Adam í sama sinn, sofandi féck þar tjád, Evu til yndis því, uppbygdi af rifi hans, leiddi svo losleg í, lysti = gard hjóna = bands.

4. Þar inni þau med lyst, þjónudu Drottni sín, hørmúnger bolid bist, bætti þeim Jesú pín. Arfa=lid Adams því, erfda rétt þenn-ann tók, er margskonar ømun í, yndi Guds børnum jók.

5. Unnnar efni slík, yckar nú kjæta sjón, ástúdleg, æru = rík, útvalin dygda hjón, í tédum aldingard, erud þid gródursett, blóm-legri blessan vard, begáfud yckar stétt.

6. Komid nú sigur = sæl! signud af Je-hóva! Guds ástar gjøf yndæl, gledji lífs hagina! yckar stand athugid, edla samlíking tók, Kristur dýrkeypta vid, kristnina trygd-ir jók.

7. Adur í Eden stód, allfagurt lífsins tré, gjørvøllum meina mód, mannsins er varnadi; upprunnin edla rós, ønnur í þess-um stad, er Jesús yckar ljós, yndi því halliſt ad.

8. Þótt Jónæ þýdum lund, þeim er vid audnu sól, upprennur eina stund, allvída heims um ból, misfagna megid tídt, mun yckur víst í tje, athvarfid einka blídt, undir því lífsins tré.

9. Veri þar yckar værd, vilkjör og frjófgun öll, í Gudi endurnærd, ilmandi daggarföll, hunángs af hverjum qvist, hans nádar drjúpi þar, yckur, sem lífgi lyst, loflegrar sambúdar.

10. Sem Davíd unnti einn, ástkjærum Mági sín, og Jóseph hjarta hreinn, hugljúfum Benjamín, Assverus Esther med, Elkana sinni frú, eins yckar ástar géd, egtabands ræki trú.

11. Eingin lífs ømun bráð, orfanda sútar kaf, deisi þá kjærleiks dád, Drottinn sem yckur gaf, heldur med heidri og prís, haldist um æsi sú; Gudi sé vegsemd vís, vandist af bádum trú.

12. Af hædum hljótid þid, hagqvæma gledi nægd, af ládi frídann frid, flerst yckur ebli hægd; vøtn, sjór og vindarnir, verdi yckur jafn-yndæl, blífid svo bædi hér, blessud og luckú sæl.

13. Ef Drottins eilíf nád, yckar vill gledja sæng, med afqvæmis eign á lád, undir

hans hlífdar=væng, virdt, aldur, vitska og dygd, vín=qvisti dafni þeim, borin frá harma bygd, blómgist í sællri heim.

14. Enn þid med ástar lund, æ síud lífs um tíd, í Jesú nádar=und, innvafin fyrr og síd! hábleśsud heims um frón, heill yckar margfaldist, lendid svo lystug Hjón, loksæl í dýrdar vist.



# Luckú Ósk,

til

## Sr. Bjorns Schéving,

og

## Mad. Sigrídar Jónsdóttur.

A Þeirra Brúdkaups degi, 17 Oct. 1736.

Lagid: Far heimur farsæll.

Alít þú øll verk, af alvitsku Drottins sem gjørd vóru merk, svo skaltu finna þad Sýrach sær kénnt, sett hefur Skaparans vísdómur tvennt, hvert í mót ødru til hagsældar því, sem heiminum skóp í, sem heiminum skóp í.

2. Skugganum skín brá, skúr enda þurviðri, blæ kyrrur hjá, visnan til frjófgunar, víkur alskjerð, varmans og horkunnar sem er aðferð, viðtekur sumar þá veturinn dvín, með verkunum sín, með verkunum sín.

3. Þess minna heims hag, held eg viðfestann um æfinnar dag, þar bíti forlaga, þó annann veg, þrástípuð hvor öðrum gagnstæðileg, sæld, ánauð, missir, happ, sút og fögnuð, sendir oss einn Guð, sendir oss einn Guð.

4. Gjöf hans er gjörvöll, gallalaus, heilnæm og fullkomin öll, í höllum stað framreidd á heppinni tíð, af hjartgróinni kjærleika þurfandi lýð, margföldum ávexti miðlar af sér, meinsemdum æ ver, meinsemdum æ ver.

5. Heillarík hans náð, hyllir það gjæðskunnar furðulegt ráð, að fyrir sjónvana sofendum önn, sínum þá best elur, nær þeirra grönn, framsýni gétur ei grundað sinn hag, hann greiðir það í lag, hann greiðir það í lag.

6. Fyrr jáði eg tvennt, jarðar og himinsins eðli gagnvendt, þar sumarið útþenur frjófgun á fold, sem fellur að haustinu kal-

in í mold, þessa vér skapnaðar skipti-kjör tvenn, skoðum í dag enn, skoðum í dag enn.

7. Enn eg lít af þeim, aldinis lít-klæðum varpandi heim, til þess ó-árborna, tignara þó, sem tendrast í frjófgun, er hins prýði bó, varma því lífgunar vökvun inndrack, við qvíslu Zemach, við qvíslu Zemach.

8. Hó! hó! þitt haust-blóm, Herrans víngarður sem kræsir vel góm, allra samfagnenda þeim gróða þín, þú gefur ilmandi gleðinnar vín, af kjærleikans liljum þó kominn sé nær, kjæll vetrar andblær, kjæll vetrar andblær.

9. Sín lima-lauf græn, leggja til samans þín blómsturin væn, kyssast algloandi knappanna flug, krønsunum undir þau slétta sinn bug; Heliótrópía samtengja sig, sjá! tvø dávænlig, sjá! tvø dávænlig.

10. Rími nú rek sorg, raddar-kyn heilög um þánkanna torg, hvella með lofgjörðar hörpu slag nið, svo hátindar gómanna klíngja þar við, Amphions Pindari, qváðust ei kjæn, Chrómata jafnvæn, Chrómata jafnvæn.

11. Hvað tefur mig meir, mín qvök að upphefja líka sem þeir, andlegu saung-fuglar

á lífsins tré, allir til hœdannna samqvakandi; eg vil ei fresta, þó faung verdi smá, fylla þann hóp, já! fylla þann hóp, já!

**12.** Gudi sé lof lagt, sem lét yckar vil-fögnud, heidur og agt, þrifna vid haust-yrkju þessarar mund, þíd gøfug Brúd-hjón, med al-dyggva lund, ad trygdanna veglegri teinging á fold, twø bygd í eitt hold, twø bygd í eitt hold.

**13.** Sem Jósúæ sól, sitt yfir Gibeon stødvadi hjól, inn til þess kappanna sigur var sjen, um sál yckar trygdanna glóandi, men, æ bid eg skíni til útfarar lífs, og endíngar kifs, og endíngar kifs.

**14.** Verdi sú veitt bón, varid og margfaldist, æru-dygg Hjón! varid ad loflegri vitskunnar dád, varid í kjærleikans edli samrád, vari yckar lofstýr og yndi med art, øll heill og géd-skart, øll heill og géd-skart.

**15.** Í margfaldri manndygd, margfaldist æ blessud frámunnin hrygd, margfaldi Gud yckar medlætis kjor, margfaldist heidur og vinsældir gjør, margfaldist lífdaga mæling af nægd, margfaldist øll hægd, margfaldist øll hægd.

**16.** Ilmi svo ávallt í ást, heill og manndygdum líf yckar allt, betur enn Jerichó

blánkandi rós, Basans og Líbaní skóg-
vidar hrós, vinni þess prýdi med vegsemd-
ar róm, veittum af hvørs góm, veittum
af hvørs góm.

17. Vid Mara vatnsdryck, vonar og þol-
gjædis fellid ei stick, eg bid og eyk lífsins um-
byrki þeim, og Elims af brunn - vötnum
síkri þann keim, destillerudum vid sína blód-
saft, med svalandi lífs krapt, med svalandi
lífs krapt.

18. Innsveipud, eg bid, oll verdid græd-
arans fadmløgum þid, haust - ynkja daudans
nær hel-sigdin ber, í hnota-gard Drottins
og liljur afskér, yckur sem skrúdbúnar, skárst
vorud þar, í skírn plantadar, í skírn plant-
adar.

19. Básúnu hvelt hljód, heims þegar
dofnada vekur al-þjód, upprísid Guds dýrd-
ar einneginn til, sem einginn ber ljóssins og
dymmunnar skil, sæl, heiløg, útvalin sídan
med lyst, sál og líf gledjist, sál og líf gledjist.

---

# Sumar Ósk,

qvedin til Klausturhaldarans,

## Sgr. Hans Schéving,

og hans kjærustu Madame,

## Gudrúnar Vigfúsdóttur, 1739.

Lagid: Kjær Jesú Kristi.

Nýr nádar dagur, nýrra tíma skil, nýr nædis hagur, nýtt fagnadar spil, endurnýar öldum, edlis hírna brár, hreggs og hrídar köldum, hjúpi steipir ár, kjörum hyllir kjæti stand, kéfur, stillir audnu=grand, ofan=gyllir unn og land, Orions tjalda skjár.

2. Vod veldis=geyma, vinda=hjólin blá, hafs nordur=heima, hrinda bylgjur á, grösum grédrar=endin, grædir saft í rót, lifna dýr um löndin, leika qvik á föt; spekir kransa fugla fjöld, sídur glansa hreisir öld, lífga, dansa lángt á qvöld, ládin brosir mót.

3. Fræ=folgum reiti, færir smurníngar, dír dropinn feiti, Drottins vagn=leidar. Magt hans guddóms gjædsku, girdir jardar=horn, vendir öld í æsku, ýngjast gros og korn, deilir mjallar dampann í, daggar falla, gjörir

því, sast útkalla sædin ný, sú þau bleikti forn.

4. Vitjar svo vægur, vors fátæka lands, Guð gjæðsku nægur, gleður mildin hans, allt hvað er og hræríst, yfir og neðar sól, honum heiður tærist, heims um gjörvallt ból! dáð hans hrósi dægur tvenn, dýrð hans glósi fylkinn þrenn, jörð og ljósin öll, er enn, aldar glæsa hjól.

5. Sól sumars bjarta, sig framm gésur nú, hírt ástar hjarta, Herrans boðar sú, oss er hjúkrað hefur, heitt skínandi í náð, geisl-ar enn og gefur, glaðast hjálpar ráð. Vor lífs hræring í honum er, alla næríng hann oss ljer, mikir særíng, meinum ver, megtar frið og dáð.

6. Skjótt skipast mæður, skin af dögg frambar, tíð tekin ræður, til samfagnaðar, Guðs ástvinum góðum; gleðst eg einn þar með, horfinn huga móðum, hressir líf og geð, í Drottins hendi (hvað-sem snist), heill mín stendur, kvíði eg síst, öll hans bending batar víst, er bót við súl sær ljeð.

7. Allt áform hefur, afmarkaða tíð, Guð svipti, gésur, grætir, huggar lýð, orkar ávallt sínum, öllu þó til góðs, hefur högum mínum hrygða varnað móðs; þó eg liði um litla

hríð, lausnar tíða von er blíð, allt um síðir stemma stríð, straumar Jesú blóðs.

8. Því skal afbreya, og þakkir Drottni tjá, hans vilðum hnegja, og hann einn vona uppá, framar lofgjörð færa, fyrir liðna stund, nafni hans náðar skjæra; nú við ferska mund, skal og ratast ríngum þjón, rækin *Gratulation*, yckur matin Eðla Hjón, út af dyggri lund.

9. Lífs luckn blóma, láði og hæðum af, auð, yndi, sóma, og ollu því er gaf, yckur Drottins elska, inn til þessa dags, í friðar-heill án folska, frjófgað enn til hags, utan þagnar þelið dást, því samfagnar mitt af ást; óskir magnar einninn skárst, auðnan geymi lags!

10. Sem varma fæðis, sumar-blíðan ól, hærsta hjálpræðis, heit og fögur sól, geisli nú og gleðji, gjörvallt yckar ráð, lífið sóma seðji, sinnið frjófgi dáð. Hormúngunum hrindi fjær, hagsældunum þoki nær, fjörs í unun faðmist kjær, fóstur Guðs á láð.

11. Um yckur skíni, ástin Jesú hrein, viðsmjöri og víni, veiti á yckar mein; allt hvað géðið grætir, gángi þurða til, hitt sem hugann kjætir, hnegist fast í vil, lífsins dygða

loflegt safn, leisi skygdast æru nafn, kjærleiks trygda kostur jafn, krapti værdar il.

12. Jesús lífs-lynd hrein, lagi synda goll! heims áttin hver ein, og handa-verk hans öll, byr og blóma skírum, blási ad yckar hag, himins ljóma hýrum, hlýti gjæfulag, jørdin blædi blessan þó, bjørg adhlædi vøtnin frjó, hljótid bædi heilsu-ró, heppinn sumar-dag.

13. Gódfellt ágjæti, gjædsku hreina trygd, ástúd, ørlæti, og alla hjartans dygd, mér og mínum tjáda, margfaldlega hér, bid eg brunnur dáda, borgi yckur med sér; øll tilhægist uppskéran, eins og þægi sjálfur hann, hún sér dragi himneskann, hag þá lífid þver.

14. Allt yckar efni, af innstu rót eg bid, stidji Gud og stefni, á stødugt heilla mid; annist æ gjørvallann, ástvinanna krans, í fridar fadminn snjallann, fel eg yckur hans! Lídid, þreyid, lífs med dád, lífid, deyid, Guds í nád, hugar-fegin sídan sád, í sælu dýrdar ranns.

---

**Til Barnanna.**

Lauritz Gud stirki og stýri,
Stór-dygdum audgist Þórun,

Vid Hannes værdin lodi,
Vasim sé luctu David!
Vigfúsi døsnun drjúga,
Drottins nád einninn votti,
Øll yckar hærstu heillum,
Haldi Børn lífs um aldur.

# Nýárs Ósk,

til somu

## Høfdings Hjóna, 1744.

Med sama lag.

Gott ár í Gudi, Gefugi Húss-Fadir! Zions sofnudi, senn á ládi hér, úngur alda háttur, ofan hefst í fáng, hreifir edlis háttur, hærri ljósa rang. Sudur geima grætur hjól, glød nordheima lætur sól, nidur-sveima nætur ról, nemur dags uppgáng.

2. Med makt yndælli, í merkjum sig framdró, er ønnur sælli, upprennandi þó, bádar sem brúdgumi, bruna af dírum sal, hjartans hørpur þrumi, hefji þackar tal. Byrtast ljósa brunnar tveir, blómann rósa vinna þeir, heidur kjósa hver þó meir, himum ædra skal.

mein, heims-bøl og andar tál, síst kann þér næra sinnu qvein, sál þín og æra geisla hrein, mædist ei sigur-mál.

**10.** Við þaü að skarta vilkjør sín, og venda í sælu rann, út af Guðs hjarta gleðinnar vín, grát-feiginn þér eg ann, fundunum snart eg fagna þín, frómleikans hjarta liljan mín, ei skiljum upp þaðan.

**11.** Ástvina þinna sorgir sér, samtengi Jesús klár, hærstar svo sinni hugganir, hans fyrir blóðug sár, ljúfur þeim inni liðsemdir, loksins af kinnum þeirra hér, øll þerri ángurs tár.

**12.** Líkkrøptug æða lindin þín, Lausnarinn Jesú kjær! øll hugar-mæða, eymd og pín, ángurs bót sé mér vær, himneskra gjæða heilsu-vín, hjartanu blæða láttu mín, dapur þá dauðinn slær.

**13.** Vinina fróma veit þú mér, verndarinn trúr að sjá, sveipaða ljóma, líka þér, lifendra bygðum á, kjærleikans blóma þar ei þver, og þínar hljóma lofgjørðir, ó Guð! um eilífð há.

---

# Utfarar Minníng,

## Sr. Skúla Illugasonar,

sem deydi á 44 aldurs ári 1744.

(*Prosopopœia*)



Lagid: A einn Gud vil eg trúa.

Far vel hinn forni heimur, far vel þú hærda tímans øld, þinn hagur, hefd og seimur, heilsa, fridleiki, ment og vøld, yckar eg eingann þádi, eignar-rétt lífs um tón, hugur minn heldur þrádi, himneskann eigindóm, sem fugl á flúgi beinu, fram ørt um tára stig, úr módur skauti einu, til annars báru mig.

2. O verøld yndis-nauma! eg hefi sagt þér góda nótt, vid þína stygdar strauma, stúrdi eg fyrr med harma gnótt, mér jókstu margar tídir, meinsemdum þrúngid brjóst, æfi-spor øll um sídir, ad því takmarki drógst, mettadir mædu lángri, midt á útlegdar fold, dryckjadir daudans ángri, og duptinu þakid hold.

3. Pínum þjáníngum undir, þjøkud er øndin lífi frá, mínar mótlætis stundir, máttir þú ecki leingur kljá, baráttan burtu flúin,

byrjad fagnadar hrós, fjötur í frelsi snúin, framreidt af myrkrum ljós, sorgum í sælu hrindir, saltir útgéfa þær, himnesku Helims lindir, horfin er Mara fjær.

4. Drottinn, sem fyrir mig fordum, frid-arins bod lét úthrópast, og í sáttmálans ordum, allt sitt hjálpræði kunngjörast, veiku sád-verki mínu, veitt hefur umbun þá, framstíginn fjörs af línu, sæ eg hans dýrd ad sjá, mitt braud er fólgid Manna, minn dryckur gledin ein, mitt túngumál englanna, magt á lífs trénu hrein.

5: Ædsti Gud hinn útvaldi, er mig í heimi skicka réd, vord á Zions vardhaldi, vitnisburdarins ljósi med, lífs hefur lampann sjálfur, leidt fyrir sínum þjón, hátt yfir heimsins álfur, ad himna veldis trón, von minni víst ei hneckti, vitnisburd þann eg hlaut, og nafn, sem einginn þeckti, annar enn sá þess naut.

6. Hér ber eg hvít-glansandi, heilagann skrúda Seraphims, med sigri sam-dansandi, saungva herskara Cherubims, heilsunnar hladinn blóma, himins á rósum geing, losid Guds leindardóma, leik á Guds hörpu-streing, mótlætis mædu og synda, minníngu vidskil-

inn, ljósśins umgéfinn linda, lausnar hag þacka eg minn.

7. Voldug vegsemdar króna, veglega mér á hofdi skín, geislandi Guds áśjóna, gledur forklárud augu mín; læt eg því ecki linna, lofś og fagnadar danś, medtekinn sælla minna, midt í ástvina kranś, vellyst þá vid aú skína, vilkjor sem oll áqvad, sí-þyrsti sálu mína, sjá þad er fullkomnad.

8. Frelsi því fagna skyldir, fyrrum ást-kjæra sóknar hjord, þad einnig þacka vildir, þínum helgasta sálar vord, ad mig frá mædu stríngri, medtók í fognud sinn, elsku-géd þitt ei ángri, andláts skilnadur minn, Gud mun þér gledi senda, greidandi kjor í lag, og vernd-ar kápu venda, voldugur yfir þinn hag.

9. Log hanś og líknar dæma, líf og hugg-unar reglu þér, haldtú med hegdan fróma, honum þacklát í ollu ver, svo mun þinn sómi fagur, síd og ár margfaldast, eptirá yndiś-hagur, eilífur fullkomnast, mig gladdir mildi þídur, meti Gudś dygda-safn, feiginś ad fundum lídur, far vel í Jesú nafn.

10. O mín kjær egta dúfa! eptir syrgjandi mædd í heim, med hofud og arma hrjúfa, huggadu þig af kjorum þeim, ad eg, sem eymdum vafinn, í þínu skauti lá, til eilífrar

heilsu hafinn, hægd alla ber nú þá, sem Drottins dauda harmar, dýrdlegu keyptu mér, og hans blód-drifnir armar, ørmagna gáfu af sér.

11. Frá mínum fadmi skilinn, fadmlögum Jesú taktu mót, Herrans brjóst-unda ilinn, inndragdu þér í hjartans rót, svo þínum ángurs ørum, eydi þad gledi hnoss, veittu hans trygda vørum, varmann hugástar koss, hann er þinn hjartans maki, hann er þín andar sól, hans vængur yfir þér vaki, og veri þitt hlífdar skjól.

12. Yfir minn andláts skugga, útgéf nú framar tár ei þín, heldur lát sinnid hugga, hér eptir kémur þú til mín, blessud í brúdkaups klædi, búnn þá sídan ad, heilög og hólpin bædi, í himneskann fridar stad, trega senn tídir þverra, treystu því síd og ár, þinn Jesús mun af-þerra, þín loksins gjørvoll tár.

13. Far nú vel hjartad fróma, falinn ást-hylli grædarans, haf þøck og heilla sóma, heit fyrir goldin trygda bands, einn Gud sem øllu rædur, úngunum dilli þín, heims vid úthafnar mædur, hefji þau upp til sín; eg bíd á yndis landi, eptir þeim gledi fund, jafnan júbilerandi, vid Jesú hægri mund.

# Eckjunnar andvarp.

Lagið: Lít upp mín sýsa önd.

Svo leiðir skýa skúr, skírviðri dags um frón, sorgar andvöku sældar dúr, sætt félag yndis tjón.

2. Svo dymmir degi af nótt, Drottinn Guð sjá til mín! gégnum ángistar húmið hljótt, horsi eg upp til þín.

3. Þú hefur myndað mig, mín sálar un-un kjær, ástvin trúfastann á eg þig, allir þó standi fjær.

4. Faðir og móðir mín, mig yfirgáfu hér, en hugul ástar höndin þín, hefur sí-dillað mér.

5. Skírnar laug skjæra við, skart andar minnar bjó, lífs heiður, yndi, lán og frið, lént hefur síðan þó.

6. Allann minn hag í heim, hún að sér jafnan tók, leiddi mig fram að lundi þeim, lystir míns hjarta jók.

7. Gjæðum var gróinn krans, geysla mér yfir brá, sólskyn á laufum leit eg hans, ljóma Guðs hæðum frá.

8. Kristi blóð-salla krapt, kjarn-dreginn hafði sér, hans af ávöxtum helga saft, hrærðu Guðs verkaner.

9. Laungum mér lénti sitt, ljós og ylm kjærleikans, blídlega vøfdu brjóstid mitt, blessadar greinir hans.

10. Sat eg vid audnu sól, sinnis glöd undir þeim, mitt voru þær og minna skjól, med Gudi í þessum heim.

11. Æ hversu hverfult er, hags-yndi manns á jord! midt vid fegurstu farsældir, fram-brunar eymdin hørd.

12. Bergi' eg nú af þeim brunn, beysk-junnar vøkva þann, ad minn lauf-grœna lysti-runn, lít eg uppþornadann.

13. Svellur hid djúpa sár, sorg veitir høgum, ad, døpur á vaungum dynja tár, Drottinn aumka þú þad.

14. Myskunar unntú mér, mæni' eg á hjálpráð þitt, sjádu hvad lísid sárt þad skér, sundrad er hjartad mitt.

15. Brákud og marin bein, burthorsid augna ljós, styn eg sem dúfan sturlud ein, stúngin er þyrnum rós.

16. Vakir mitt harma vers, vid mædu kjør einsæt, yfir ná-ból og audann sess. ást-vinar míns eg græt.

17. Þinn hefur daudans dúr, duptad mitt høfud-skart, minn hjartans ekta-maki trúr, myrkvad er ljósid bjart.

18. Lýstir þú lífs á veg, lísi og sálu mín, geyslaði náðar gleðileg, Guðs birti af vorum þín.

19. Flutti mér friðar róm, fögnuð og andar traust, þín meðan gaf í heimi hljóm, hyrðirs bástúnu raust.

20. Þér hefur Skaparinn skjær, skickað laun voku = manns, þár himna fylkirs harpan slær, honum lofgjörðar dans.

21. Krossins þó kenndir tíðt, kystir þú Herrans vönd, heilög trú, bæn og þol = geð þýðt, þig báru Guðs á hönd.

22. Mjög var meðaumkun þín, mótlættum hjálpar fús; nú seður Guð þig nægtum sín, numinn í sælu hús.

23. Sem Hunnu ást = hollur, Elkana varstu mér, dygð hefur alla dásamur, Drottinn umbunað þér.

24. Þín gladdi hjúkrun hlí, hag minn við sorgar lút, nú má eg eins og Naemí, nefnast ein Mara af sút.

25. O Jesú! ángur þitt, af = þerri tárin mín, sveipaðu lífið særða mitt, signuðum faðmi þín.

26. Þú sem ør = þjáður fyrr, af þínum krossins stól, hag þinnar móður huggaðir, og henni lagðir skjól.

27. Réttu mér hjálpar hönd, heit-orðin minnstu góð, þín hefur blíð og blessuð önd, bundið sér eckna móð.

28. Munaðarleysið mitt, meðlæti hjástoð þín, faðmi dýrasta forsvar þitt, föðurlaus börnin mín.

29. Geymdu þau, Guð minn trúr! grandlaus í vöku og blund, vegur, sól, hæli, vagn og múr, vertu þeim alla stund.

30. Í þínu ljósi leið, líf og önd þeirra og mín, eptir síkraða síðurstu neyð, safnaðu oss heim til þín.

31. Ó Guð! eg þakka þér, þinn sannleiks rétt og dóm, þú léntir bæði og burt-sviptir, blessuð sé náð þín fróm.

32. Æ kom og ecki tef, ást-kjæri Jesú minn! skjótt mig úr dauðans skugga hef, í skoðunar ljóma þinn.

33. Ó minn unnusti sæll! eg þig með tárum qveð, hug þínum sé Guðs himin inndæll, holdi sætt jarðar beð.

34. Þacka eg sambúð þín, þægasta lífs um stund, eg veit þú kemur ei til mín, á þinn eg sæki fund.

35. Þú hefir þegið frið, þín sól ei undir gár, lifðu, ó Guðs mann! ljós það við, lof-sæll um eilíf ár.

# Utfarar Minníng, Jóns Jónssonar,

ad Vøglum í Hørgárdal, er deydi 1758.

Undir Nafni barna hans.

Lagid: Uppá fjallid Jesús vendi.

O þú lindin eilífs góda, ylmsætasti Jesú minn! hjálpin allra heimsins þjóda, hverskyns meina grædarinn, þú sem kallar þjáda og móda, þíns í ríkis føgnudinn.

2. Guddóms ást og gjædsku pína, gét eg aldrei fullþackad, sorgum firrtir sálu mína, sjálfur þoldir heljar bad, svo þín tára-laug og lína, leiddi mig í sælu stad.

3. Besta skarti brúdar-þinnar, bjóstu mig í skírnar sá, end-batst þig til andar minnar, alla qvittir synda þrá, nægstu svølun nádarinnar, nem eg þínum brjóstum á.

4. Lífid mitt í lyst og vanda, lísi þínu er innsiglad, þreyttann hressir þad minn anda, þjáníng hvør sem fellur ad, millum þinna módur-handa, mjúkann finn eg grida stad.

5. Þó eg heilsu, yndi og audi, afklædist og verdi hér, lík, sem þekur leyrinn raudi, lífs-

ins huggun er þad mér, hverki sorg nje dapur daudi, dregur mig af høndum þér.

6. Andláts þegar adber stundin, eflaust trúi eg verdi þín, blód=fegursta blessud undin, blæa og hreidur sálar mín, eptir dáins óska blundin, æ sam-dreckum gledi vín.

7. Nú ad sinni tek eg táre=tíd, er høgum brugdid fær, megn upphafin mædu bára, mínu hjarta géngur nær, burt er horfid æsku ára, athvarf mitt og lampi skjær.

8. Raunir skyldu rakna blódi, renna tár, en bliknar kinn, hédan tókstu, Herrann gódi! hjartkjærasta fedur minn, þann er veiku valdir jódi, vin og ríkis arfa þinn.

9. Hann þú prýddir helgum sóma, heimsins voda geymdir frá, honum gafstu hjartad fróma, heill og sæmdir jørdu á, hans í dygda heidum blóma, hærur skygdar létstu sjá.

10. Þinni mynd í krossi og kjæti, klæddur innra mannsins bar, trú, gudrækni, trygd, ørlæti, tamur dádum mynskunar, gladdi þjód í gjæfu sæti, gyrntist øllum velferdar.

11. Undi sætast' ordi þínu, elskadi þinn helgidóm, bæn og þol í brjósti sínu, bar og æfdi lífs um tóm, sann=audmjúk í sorg og pínu, sjed var æ hans lundin fróm.

**12.** Æfi-dægur út svo kljádi, (eru þess vitni mørgum hjá), fxmdar daga finna á ládi, saddur, harma byljum frá, líffins hofn og landi nádi, leingst er eptir gjørdi þrá.

**13.** Undir sorgum efftu naudo, eilífs hafdi lífs forsmeck, máls og rænu midt ad dauda, mjøg farsælum notid féck, blóds vid Jesú brunninn rauda, burt sem ljós af heimi géck.

**14.** O minn Fadir! þig eg þreyji, þín gudrækni, trygd og ást, vann mér hag frá vøggu degi, velferd minni lísti skárst, æru lífs og audnu vegi, áknýandi fyrir mig þrást.

**15.** Blessadar létstu bænir vaka, blessan húsßins stundadir, blessadir ekta børn og maka, blessad hjarta sýndir mér, blessud laun ert búinn ad taka, blessan hvar ei nockur þver.

**16.** Minníng þín med sigri og sóma, sád í blessan ecki dvín, holdid leyst af hrygdar dróma, hvílir sætt, en øndin skín, þar til Gud á degi dóma, duptud frjófgar beinin þín.

**17.** Allra-heilagra Messa mundi, mædu þinnar lykja dag, Allra heilagra fridar fundi, fagnar þú med yndis hag, Allra heilagra lífs ad lundi, leikur dýrdar hørpu-slag.

18. Eg mun þig á himná hædum, horfin allri sút og þrá, yfir skrýddann Cherubs klædum, kórónadann sigri há, í helgustu ástar gjædum, eilíflega finna og sjá.

19. Dygd og blessan dæmi þína, Drottinn Jesús mér í arf, láti mæda myskun sína, mér ad inna lid, sem þarf, leysi hjá þér loks ad skína, lífsins eptir mædu starf.

20. Herra Jesú! veit mér vera, von og styrk í daudans þrá. Mildi Jesú! mína ástkjæra, mér unn þú í dýrd ad sjá. Þídi Jesú! þér sé æra, þock og prís um eilífd há.

---

# Utfarar Minníng,

þeirrar góð-frægu Hofdíngs qvinnu

## Gudrúnar Vigfúsdóttur,

sem deydi nóttina milli þess 3ja og 4da Decembr. á hennar 66 aldurs ári, 1767.

---

Lagid: Sólin upprunnin er.

Hvad skyggir hreina sól? hvad stjørnur klárar? hvad grætir haudurs ból? hverju vill ára? hví géfa hljóm, helgidóms málm-

ar frídir? vakinn sem vísi dóm, vottandi klockvum róm, tárugar tídir.

2. Utréttur Drottins er, armleggur fundinn, þángad sem hafdi hér, hinn skjæra lundinn, fyrr gródurfest, fegurstu aldin gjædum, vidsýndar varinn mest, vokva lífandi best, af Zemachs ædum.

3. Pemann med brum og blóm, blæ líkann fáum, í daudans húm og hjóm, horfinn nú sjáum; æ! ángurs pín, il-sætar kulna glódir, sorgbitnu sinni mín, sárt er ad minnast þín, mild **Edla módir!**

4. Uppgéck þitt æfi-hrós, ad Drottins rádum, krans-fogur qvenna-rós, krínd adal-dádum; sæl Kristí mynd, systir og elsku-brúdur, marg-dryckjud líssins lind, líssins fadmadir hind, vid líssins lúdur.

5. Hans ást þér ylmadi, ok hans trú glæddi, hans ord þig helgadi, hans andinn frædi, hans hægri hönd, hollust var þín ábreida, sú vinstri svæfill, önd, svo máttu ei nockur grönd, andar hvíld eyda.

6. Eitt blóm af edla rót, eins varstu manna, eitt blóm ad erfdum fljót, adals himnanna, eitt blóm í öld, atgjörsis, hold er prýddi, eitt blóm ad audnu töld, æfinnar framm á qvöld, hvern tíd sem hlýddi.

7. Ypparlegs egta-manns, ønd og kó-róna, hag og lífs-yndi hans, hyggvæm ad þjóna; heill, hefd og ljós, húsins á alla vega, barnanna byr og hrós, blessunar hind og rós, metin maklega.

8. O Gudelsk Eunyche! ó forsjál Marhta! þitt loflegt líferni, lengi mun skarta. Hrein hjartans trygd, hógværd og spektar ædi, föst auðmýkt, fögur blygd, fágjæt ørlætis dygd, merk þolinmædi.

9. O! ad hver arfi þinn, ætt-génga sindi, heill þína og heidurinn, hegdan og lyndi. Sér sjálfum rótt, sól medan geyslum hreifir, hitt þjáir þánkann hljótt, þinn dagur forgar nótt, lifendum leifir.

10. Þitt harma þrotid skeid, þínir ástkjæru, þig harmar bygdin breid, bundin gøds æru, þig harmar hér, hús Guds og þinn bústadur, þig harma þurftugir, þig harma góðkunnir, mjøg sem einn madur.

11. Sídan þér vein og vans, vann daudans mædi, umsnúinn er minn dans, í sorgar quædi; úng æsku tíd, upphreifir tára minni, holl, margføld, hugul, blíd, hrærir þín dygdin fríd, søknud í sinni.

12. Minn greiddir menta veg, mig uppfóstradir, mín kjør marg-haganleg, mjøg

umsorgaðir. Mér unntir mest, myskunar Guðs af hjarta, minn þoldir margann brest, mig þjáðann gladdir best, blémið hugbjarta.

**13.** Oddáins æra þín, úrræði nauða, raunholluft rækti mín, rétt framm í dauða; sár svíður und, sviptir þíns lífs, er faldi, mitt ángurs mæðu pund, og marga gledi-stund, í verøld valdi.

**14.** Huggar þó hjartað mitt, hversu rólega, lífsins Guð lísið þitt, leiddi frá trega, nestaða sætt, nátt-verdi Jesú dýrum, síðan frá sorgar ætt, svæfda með yndið rætt, í hans faðmi friðum.

**15.** Þín góðverk þúsundføld, þacknæmust Guði, borgar nú alda øld, ædsta søgnuði, uppskéran þar, allann fullkómnar sóma, hér vera blessunar, beinin hag frjófgunar, inn til dags dóma.

**16.** Edla ást-manna þín, ángur Guð bæti, egtamanns vatni í vín, veinan í kjæti, fyrir Jesú tár, fagur-rauð virðist snúa, þeim øllum þerri brár, þitt sæla Júbil ár, eptir lífs lúa.

**17.** Sof nú af sorgum qvitt, sigurs með gnóttir, Guðrún í Guði frítt, glod Vigfúsdóttir, uns alheims þjóð, uppvekur

Guds básúna, og þín bein líks af lóð, leiðir dags ytstu rjóð, blær morgun brúna.

18. O Jesú! andlát þitt, yfir mig blæði, lífgun, þá lífið mitt, lír dauðans mæði, svæfðu mig sætt, synd mína gjör ørenda, svo friðar frelsið mætt, finni eg með þinni ætt, í dýrð án enda.



## Graf-skrift.

Hér sefur Høfðings mær, heiðurs með gnóttir, Guðrún gull-lampi skjær, góð Vigfúsdóttir, af aðli lands, upprunnin veglegasta, hærstum þó himna ranns, hvíld undir dygða krans, nam náð skírasta.

2. Búið líkblæu hold, blómlegast forðum, þessa heims þakið mold, þreyr að Guðs orðum, sálin ótvíst, saung dýrðar lætur hljóma, þar til Guðs lúðurs lyst, lénar þau samtengist, á degi dóma.

---

Þú maður bíðandi, þeink hár og skríðandi, þér ber að deya.

Líf Guði hlýðandi, hag dygðum prýðandi, hrein forsjál meya.

Sértu vel líðandi, sæll muntu stríðandi,
sigurinn heja.
Vert ecki qvíðandi, sorg eptir svíðandi,
sætt kémur eja.



*MISCELLANEA.*

## Fjalla nøfn úr heilagri Ritníngu.

Hér skal Fjalla heiti þjóð,
herma þau er Ritníng tjer:
Ararath bar eptir flóð,
ørkina með sínum her.
Þaut af Sína þrumu hljóð,
þaðan géfið Løgmál er.
Knást af Ebal kneisðu hnjóð,
kénnimanna bølvanir.
Bauðst af Grizim blessan góð,
báðum Amen sagði hver.
Uppá Hór hann Aron tróð,
afklæddann þar lesum vér.
Bjó á Seir með børn og fljóð,
bróðir Jacobs hylli þver.
Sjó á Þæór Zipors jóð,
sjón olturu bygði ver.

Fjøld á Saphir reisu rjóð,
reistu fylkin erfda gjer.
Baala nær með benja skóð,
bjuggu Júda kyn-þættir.
Ephraim ei bar vloþjóð,
besta kyn þá fold yrkir.
Salmon, Hebron, enn í óð,
Ephron, Heres, skriftin lér.
Midt af Písga mót Asdóð,
Móses hvíldar landið sjer.
Hann á Nebó heljar slóð,
hitti senn og gékk yfir.
Heit af Zion hrinda móð.
Hæð þá Davíds slot gyllir.
Flaut af Hermon hins á lóð,
hlý nátt-døgg og frjóssemdir.
Mesta borg á Moría stóð,
Musterið og heiløg kér.
Hár Líbanus, fregn er fróð,
frægann Cedrus við geymir.
Hraut á Carmel himin glóð,
hremmdi tvenna fimmtýgir.
Fjøll Gilbóa víg um vóð,
versti dauði Saul þar skér.
Fleitti Thabor føgrum sjóð,
forklárunar prísinn ber.
Á Golgatha útrann blóð,

allann heim er friðþægir.
Olíveti heiðri hlóð,
Herrans pín og uppfarir.
Þegnum Fjalla þulin Ljóð,
þanninn falla skulu hér.

## Tíu plágur Egyptalands.

Egyptanna uppteiknast,
átta reiði-slög og tvenn.
Blá-vötn öll í blóð smíast,
beysk-ýldist hvør lækurinn.
Illar pöddur áþreingjast,
allann lýð og kongínginn.
Moldar-lúsinn mor-qveikjast,
menn og dýr við aftökin.
Svartir ormar sam-þyrpast,
svelgja og víða matvælin.
Drep-sótt æðir dálegast,
deyðir hjarða frumburðinn.
Eldíngar með hagli hast,
helslá bæði fé og menn.
Bruna kaunin holðið hvast,
hrífa, nær sem glóð ausin.
Eingisprettur fánga fast,
flesta landsins ávöxtinn.

Himin ljósin heidmyrkvast,
hvergi sást um dægur þrenn.
Frumgétníngar foreydast,
fannst ei nockur ódrepinn.
Lokfins rauda rán adbrast,
rauk þar allt í hel=køfin.

## Marju tal.

María systir Móisis hin fríða,
mjøg vel kunni ad spá.
María Drottins módir, allra lýda,
mestann heidur þá.
María svipti Magdalenu qvída,
mildin Jesú há.
María systir Marthæ smurníng þída,
mundi Kristó fá.
María qvinna Cleóphæ nam bída,
krossi Drottins hjá.
María Jacobs módir þar samtída,
mædd hans útfør sá.
María Jóhanns módir gésti blída,
medtók æru kná.
Maríu (Hebers mál) er beyfk ad þýda,
mørg þad nafnid á.

# Um óstødugleika þessa lífs, og þess armædu frelsi.

Svo linna tregar sem tíðir, mannsins æfi hér í heim, hnígur fast að merkjum þeim, allir dagar eiga qvöld um síðir.

Leit eg standa liljn netta, líka rós hjá*) henni spretta, rúðu, stør og reirinn létta, renna upp annars vegar. Svo linna tregar. Skein þá prýðin rósar rétta, reyr-staunginni fegur øld. Allir dagar eiga qvøld. Loks að jøfnu það og þetta, þrycktu vetrar hríðir. Allir dagar eiga qvøld um síðir.

2. Sú rann eingin sól í heiði, sældar skyn ei eptir leiði, raka nótt af unnar eyði, eymir kjælu þegar. S. l. t. Æsku jafnt og elliskeiði, yfirdynja sømu gjøld. A. d. e. q. Forlaganna roskin reiði, rétt og bogið níðir. A. d. e. q. u. s.

3. Rædu spakur sín forsjálum, Sýrach þannig hegdar málum: einginn sæll í heimi hálum, heiti, fyrr enn þegar. S. l. t. Að Drottins myskun dæmir sálum, dægur lokin harma køld. A. d. e. q. Heita má þar

*) af.

skipt á skálum, skírir sól afhýdir. A. d. e. q. u. s.

4. Eins og þreittum hvíldin hagar, hugg=un þeim er sorgin agar, svølun mæddum lind=in lagar, lifnar kjæti þegar. S. l. t. Hrak=id slei ad høfnum slagar, hvar ei skynur ald=an køld. A. d. e. q. Gleyma svo því gled=ina bagar, Guds útvaldir lýdir. A. d. e. q. u. s.

5. Þeir sem hér á eymdar árum, einatt sádu nidur í tárum, skulu dýrdar kransi klár=um, krýndir fagna þegar. S. l. t. Bindini, qvitt af synda sárum, sín utgengin framber øld. A. d. e. q. Skip ei leingur skékst á bár=um, skína fegri tídir. A. d. e. q. u. s.

6. Sem af økrum sveimi ljómi, saungva møkum bregdi hljómi, veisi røku vatna hjómi, vonum skyndilegar. S. l. t. Eydist søkull æfidrómi, eins og sprøkud húsa tjøld. A. d. e. q. Lúdum vøk ad lausnar dómi, lidnar hoda tídir. A. d. e. q. u. s.

7. Þar til hlackar hverju sinni, hjartad mitt í verøldinni, ad eg hulinn féssjód finni, á fridarins akri þegar, lífs l. t. Sætt mun skína sálu minni, sólar fyrirheitin øld, þá a. d. e. q. Hold í jardar hvílu sinni, harmar ei né qvídir. A. d. e. q. u. s.

8. Nær mig ømun synda sveitir, samvitskunnar dómur þreitir, heimur stygd og hneixlan veitir, hugsa eg annars vegar, senn l. t. Hverju sem minn hug áreitir, hvet eg mót þann vonar skjøld: A. d. e. q. Gud í føgnud grát umbreitir, géfur sælli tídir. A. d. e. q. u. s.

9. Sjúkdóms ef mig særir pína, søknudur eptir vini mína, edur gipta fjárins fína, fallin utan vegar. S. l. t. Ber eg von í brjósti hlýna, bætast munu þau vanhold. A. d. e. q. Réttist bogin lucku lína, løksins þegar strídir, a. d. e. q. u s.

10. Eingin skal því andar mæda, eingin þørfnun heimsins gjæda, eingin kraptur hug minn hræda, holds ei dvíni þegar, Tídir sem tregar. Drottins Jesú dreirinn æda, deyfdi svo mín glæpa vøld, ad þeir dagar eiga qvøld; enn í stadinn yfirblæda, allar heilla tídir, allir dagar eilíflega blídir.

---

## Til S. J. D.

Alphabetid uppteiknad, úngri veiganipt eg sel, bid frumgétin brúdir þad, beri sig ad læra vel.

2. Mikils vísir mjór er tídt, menta safn- id líkt um fer, þad sem grísir námu nýtt, náttúrunni tamast er.

3. Gømlum hesti gyldir vardt, gáng ad kénna, þad er mín trú, því er best ad úng- um art, ørugg tamin verdi sú.

4. Menta rótin mjøg er beisk, midlar sætu blómi þó, þeim er bótin þeigi treisk, þeirrar saft er vel inndró.

5. Lysting væra legdu því, ljúfan góda! støfun á, byrtu skjæra bókum í, barna gull- id finna má.

6. Med støkunum máls af reir, mig, (ef skyldan gjætir sín), heilrædunum hreifa meir, hvetur dygd foreldra þín.

7. Fyrsta, besta og frægsta rád, finn eg vella sólin, þér, ótta mest og elsku dád, æ til Drottins þú geymir.

8. Hyggdu vel ad hann sjer allt, heyrir, dæmir, gjeldur laun, vondum selur kaupid kalt, kjefur gódum alla raun.

9. Trúdu því hann tryggur er, typtar vægur, elskar heitt, einginn mía megnar þér, medan hans er fylgi veitt.

10. Bid hann vilji blessa þig, byggja, stoda, varna þrá, misgjørd hylja, módurlig, mæddi og gladdri augun ljá.

11. Skøpun, myndan, fjørið fríðt, fæð-íng, sjón, heyrn, krapt og ráð, hreinsun synda og heilsu tíðt, hans eilífri þakka náð.

12. Fóstur, hafinn heilla krans, hægð, umsorgun, friðar-vist, og ótal gjafir allar hans, en einna mest fyrir Jesúm Krist.

13. Honum fel þitt áform allt, eignir, heiður, líf og sál, að hans vel þig orðum haldt, undir tæmda dauðans skál.

14. Æsku-blómið ætti þitt, einnig hyllast foreldra ráð, það er sómi heldur enn hitt, hefur líf og géfur náð.

15. Ætíð skyldir inna þeim, ást og heið-ur Guði næst, fegri gyldum fórnar seim, fráð er barna hlýðni tærst.

16. Þol øgunar, þackláti, þjónkan yð-in, hæf og trú, skarta mun og skylduníni, skaparans boð ef rækir þú.

17. Bið þeim allrar blessunar, bresti þeirra kjær umlíð, hæfi snjallrar hagsældar, heyrir þetta fyrr og síð.

18. Vendu þig að vera stillt, við offkjæti síður tøm, friðar-stigum fjær ei villt, fá-skiptin og ydjusøm.

19. Verka-dygg og viðmóts hír, vinum trygg að jøfnuði, fáum stygg en reiði rír, ráðin bygg á framsýni.

20. Elska frid, en eyru gef, aldrei þeim er hylla róg, þeirra nidur sládu slef, slíkir aka fjandans plóg.

21. Hvar sem betur haga má, heldur skyldir koma fram, ecki metur æran há, íllqvittinna þackar vamm.

22. Láttu geymt þad leyna ber, legg í minni velgjørníng, hafdu gleymt úr huga þér, hitt sem þecktir ávirdíng.

23. Vert ei bleckin heldur holl, hæfilát og gódvikin, drag þig ecki í drengja soll, né dryckju-manna selskapinn.

24. Sýndu milda medaumkun, munadlausum hvar þú kannt, hjálpar-vild og hugsvølun, hygg þad vísann sælu-pant.

25. Ef þú gledur, gjædskan mín, Guds fáráðann vesæling, sídar gédi svalar þín, sjálfur Gud í mótlætíng.

26. Þr til móds ei ødrum bæg, agta hvern vid skipta ber, hugul, gódsøm, hír, einlæg, hylli granna festu þér.

27. Vertu um of ei gróda gjørn, gáfur Drottins þó vel hyrd, heyrnar lof ei legg á børn, lædir heimskan þótta vird.

28. Hvar ed, nær og hverja sem, hitta kunnir þánka stygd, þolgéds æru þér vel tem, þad er blessud edla dygd.

29. Øllum skyldir unna góðs, øllum kjósa Drottinns náð, øll er skildin ættar blóðs, undir slíku falin og tjáð.

30. Uppá heimsins auð og prjál, ei þig reiða skyldir fast, það er eymsins ímind hál, edlisgjørn að foreydast.

31. Eins er trygðar=hafið hans, hjástoð øll og mannvirðíng, raunar bygð á rósum sands, reikar eins og hjól í kríng.

32. Himna gjæðin helstu því, heiløg, væn og tryggileg, allrar mæðu frelsi frí, fylla þau á bestann veg.

33. Þótt að høndum komi kjær, kjør, sem æru gylli sess, dauðans bøndum dregur nær, dúfan góða, minnstu þess.

34. Þinnar æfi þrýtur hlaup, þegar kannské varir minnst, sérhver hæfir síðar kaup, sem í dauða verður finnst.

35. Eptir liðið lífsins blóm, liggur eyk í bóli sín, forløg miðast fyrir dóm, freku munar sæld og pín.

36. Þessa minníng þér vel tem, því sú finnur Guði hjá, hærsta vinníng síðar, sem, sálu þinni gagna má.

37. Guð sem áður gaf þér líf, gjørði fyrr og innplantað, undir náðar æðstu hlíf, æfinlega geymi það.

38. Mentir snjallar þrói þér, þinn sem heidur auki ljóst, dygdir allar safni sér, sætan únga þér í brjóst.

39. Happa-skjær og hyggju-fróm, hag vinsælda nádu dug, mann-ords æru, byr og blóm, beini gjæfu þinnar flug.

40. Pídarst veri þitt forsvar, þrennur Gud um æfi-stig, óbænir og áligar, eingar láti snerta þig.

41. Fridar-gjædum fylli dád, fordi galla synd og pín, þitt í mædum, rétti rád, og raunir allar sikri þín.

42. Nær sem hér ad hondum rædst, holds og andar skildaginn, komi þér til hjálpar hærst, hver einn Jesú blód-dropinn.

43. Vid brúsandi heljar haf, hvar sem ber ad standir mædd, sálar grandi øllu af, í hans fadmi sértu klædd.

44. Gledi-dægur eilíf øll, eptir vægann lausnar-dóm, finndu næg í himna høll, Herrans þæga lilju-blóm.

45. Pundar vistir þar eg fel, þrotid kjærist óska vín, fróma Systir, fardu vel, fylgi sigur nafni þín.

## Til G. J. D.

Furdu lítid fræda qver, fyrstu bókar menta, skyckju níta skordin hér, skrád í flítir sendi eg þér.

2. Línu byrgdann leturs mó, líka þrýck-íng handar, bid eg vyrdir betur þó, baugs enn hyrdir penna dró.

3. Kaup áskil eg hrínga hlín, herdtu þig ad læra, mentir vil eg þrifni þín, þess ei dylur beidni mín.

4. Þad og gledi fersta fær, fødur og módur þinni, hjartans medan vøk er vær, vertu gédi þeirra kjær.

5. Hæfir mildum, Herrann qvad, hlýdni foreldranna, reikna skyldu þína þad, þeirra vildum hneigast ad.

6. Mundu rádin mín ávallt, mun þá Drottinn bjarga, þeim á ládi þig adhallt, þær vid dádir una skallt.

7. Æ þinn Gud med trú og trygd, til-bidjandi sértu, sá føgnudur hafnar hrygd, há-blessud er þvílík dygd.

8. Legdu jafnan líf og ønd, ljúft um qvøld og morgna, í Jesú nafni hans á hønd, hreint svo kafni synda grøud.

**9.** Einnin vinnist vel og hægt, verkid hvert sem byrjar, hvad sem finnur hug óþægt, hafdu í sinni dygda nægt.

**10.** Vertu fróm og vel sídud, vør og mild í rædum, allann sóma géldur Gud, gjæt hans dóma réttsinnud.

**11.** Þar um ætíd þenkja skallt, þegar unir glammi, holdsins kjæti, hér med allt, heims dálæti stendur vallt.

**12.** Adgjæt því ad allir menn, eru í dauds-ans skugga, aumleg búast umskiptin, opt vid snúin forlogin.

**13.** Þad er mín gáta þels um far, þegar Drottinn kémur, margur gráta muni þar, mest er káta sinnid bar.

**14.** Hinna vaungum, veit eg, hann, víst afþerrar tárin, hverra laungum heims í rann, harma saungum una vann.

**15.** Heimsins glaum ei þrái því, þitt hid únga hjarta, soddan draumur svipar frí, sorgar straumimn flestum í.

**16.** Audnu fremur undir lagt, ydug still-íng gétur, þar af kémur æra og agt, ef þér temur sinnid spakt.

**17.** Vøndud láttu verkin þín, varast ó-nenníngu, ydnis háttur eign er fín, æru þátt-ur sá vel skín.

18. Holla trygd og blíðni veit, húss foreldrum þínum, þol-géðs dygðar þú æ neit, þau til sīngðar ecki reit.

19. Hygg vel á þau heitin sín, heillir munt uppskéra, dygð ef sáir, dúfan mín, Drottinn gáir verka þín.

20. Bráðu sinni ver þig vel, vert í orðum gjætin, ráði svinnu reiði fel, ræðu minna skapi sel.

21. Hirðtu sjaldan hyggjū grunn, hálfkéndum að opna, tíðu skvaldri tæpast unn, tem þér aldrei lausann munn.

22. Hverki rædur, lag né lyst, legg við káta drengi, þeirra slæðum þú verjist, þinn á hæðum Guð óttist.

23. Frómann, hygginn, þecktann þér, þú skalt velja að ráðum, þeink, sá tryggur ödrum er, eins má dyggur verða mér.

24. Jafnkít aldrei illhrísíng, ert ei børn til reiði, vondsku-baldinn vitfyrríng, vantar sjaldan formælíng.

25. Þeim er minna þaði lán, þér, af Drottins hendi, gjæt, að innir ei forsmán, utan finnir dygða rán.

26. Þann ei hyrðir sjálfum sér, sæmd og æru kjósa, lítils vyrðann láttu þér, last í kyrðum þó geymir.

27. Minnst án sakar, wía skallt, munaðarleysíngjunum, sér það makar meinið kaldt, mørgum bakar yndið hallt.

28. Harma = sjúkum hugsvølun, hæfðu, ljúfan góða! Drottins mjúka meðaumkun, mun þér lúka sætt umbun.

29. Aumann hlæir aldrei þú; uppá Drottins náðir, vef þig æ með von og trú, vel í haginn fyrir þig bú.

30. Hrygð er flekkuð hérvistin, haldtu þig að Drottni, stóladu ekki mjøg á menn, margann blekkir verøldin.

31. Sett við = eymrinn sorgar ert, síður festann láttu, þinn við heiminn þánka bert, þíns ógleyminn dauða vert.

32. Hugleið sannann Drottins dóm, dylst ei við, hann kémur, líkt sem annað lauf og hjóm, líf = stundanna fyki blóm.

33. Dagar þínir drífa hratt, dregur ódt að merkjum, bedju sína byggir stadt, bjørkin sína þar hún datt.

34. Enn þar stundin helst er hál, hugar dofnu meingi, varastu blundinn við heims tál, vertu hrundin mey forsjál.

35. Øll mun dafna dáðin þín, dygg ef heims á foldu, rækir jafnan ráðin mín, røðuls hafnar láðin fín.

36. Þín munu svæfast synda gjöld; sem og unnum vara, lofið hæfa lífs um öld, lán og gjæfa þúsundföld.

37. Drottinn sá er öllu ann, æru-skarti þínu, hreki frá þér heims í rann, heilla-þrá og gledi bann.

38. Hverskyns gjæfu-gyrnd og þrótt, glæsta ment og heidur, dýr þér æfi dag sem-nótt, dygdir hæfi sinnið rótt.

39. Hvad sem æru hefgar þín, heimsins undir sólu, Herrans næri höndin fín, hjá þér, kjæra dúfan mín.

40. Allar tídir unni þér, Englar, menn og sképnur, haudur, frídir himnarnir, hafs-ins prídi, vindarnir.

41. Lægirs-feldur, ljósin öll, loptid, jurt-ir, steinar, skúrir veldar, myrkur, mjöll, málmur, eldar, vatna-föll.

42. Mistur, heidi, heitt og kaldt, hæd, dýpt, eymur, kirra, fjörs um leidir audnu allt, yfir þig breidi, sprundið snjallt.

43. Gud á hædum gefi þér frid, gledi, nægd og yndi, fordi skjædum synda sid, sendi í mædum styrk og lid.

44. Vertu hér í voku og blund, vafin Jesú örmum, standi hver hans æda-und, opnuð þér á dauda-stund.

45. Rær sem bøndin, hvarma hjól, heljar, saman- reira, laus við grøndin, lífs á ból, leiðist øndin fegri sól.

46. Allra gjæða fylling fróm, faðmi þig, mín dúfa, finndu bæði frelsis dóm, frið- og hæða sigur blóm.

47. Prýtur versa vandað smíð, vart í mærðar gildi, línur þessar lær og hlíð, lifðu blessuð fyrr og síð.



## Til G. J. D.

Bænar ljóða vèrs óvønd, (verðugri sem bæri), sofnirs glóða fríðri strønd, framm skal bjóða góms af rønd.

2. Vantar qvæða vitsku lag, vil eg þó æskja þanninn: friðar gjæða hrepptu hag, hrundin klæða, nótt sem dag.

3. Yfir þér skíni einna mest, ástin Guðs og manna, øllum tíni auðnu brest, á þér hríni gjæfan flest.

4. Dagana alla Drottinn minn, dilli þèr á ørmum, sútar galla sefi þinn, sólar-halla Kónguriñn.

5. Aðstur blessi ár og síð, øll þín verka

störfin, í gaungu og sessi gjæfan þíð, gladt þig hressi um æfi-tíð.

6. Jesú hjarta gjædskan góð, gledji sálu þína, hrygdar parta hrindi móð, hans hid bjarta sídu-flóð.

7. En sem dvínar æfi skeid, og yndi lífsins hallar, sálu þína svipti, greid, sonarins pína qvel og deyd.

8. Henni skjól í himna vist, hærstur Drottinn veiti, fegri enn sól med lífsins lyst, hjá lambsins stól hún forklárist.

9. Bæn mín verdi skrifud og skráð, Skaparans midt á hjarta, hrínga gérdi heims umláð, hvergi skérdist æru-dáð.



# Qvædis-korn, Til Sigrídar Þorláksdóttur.

Sjádu þinn sóma Sigrídur mín, gjættu Guds dóma, þá gledin skín, framsýnin fréma, sé fasteignin þín.

Margir stunda hefd í heimi, hvergi blunda ad fergja seimi, fjádir í lund af fagur-dreymi, forgengilegs blóma. Sjádu

þinn sóma, viltir grunda víst að eymi, vonum fyrir dvín. Framsýnin fróma, sè fasteignin þín.

2. Líf á grønnum leikur þrædi, leiðir mønnum brygðul gjæði, sveipað onnum, sorg og mædi, sígur æ til dróma, s. þ. s. Yndis hrønnum byr þó blædi, ber að ángurs pín, s. s, s. s. þ.

3. Því er láni laust að trúa, luckumánî kann sèr snúa, hags með ráni, rètt í grúa, raups og hylli dóma, s. þ. s. Einatt spá-nýj gjæfu gúa, gabbar vini sín, s. s, s. s. þ.

4. Hag þinn tryggja hreint ef vildir, hús ei byggja á sandi skyldir, heims við liggja grandi, gyldir, gígar niðinn tóma, s. þ. s. Viltu hyggja á hærri snildir, hlíddu ráðum mín, framsýnin s, s. s. þ.

5. Drottins ótta dugnað mestann, dag og nótt þèr hafðu festann, vitsku gnótt og virðta bestann, veg það hyggnir róma, s. þ. s. Lucku þrótt og lofstýr hreſtann, ljer sú gáfan sín, s. s, s. s.. þ.

6. Hvert þèr mætir svanninn svinni, sorg eða kjæti í verøldinni, haldtu gjætíð hug og sinni, Herrans viðúr dóma, s. þ. s. Løg hans ætíð legg í minni, ljósið af þeim skín, s. s. s. s. þ.

7. Þín skal vaka bænin blída, bid um sakar uppgjöf tída, allskyns blaka fríun frída, frid og andar blóma, s. þ. s. Talinu spaka teing Hid þýda, traust á Jesú pín, F. s. s. f. þ.

8. Elska þá er elska dygdir, ad þeim gá er velur tryggdir, vek ei þrá, en veid af styggdir, ven ei last á góma, s. þ. s. Brýrli hvá, sem bann og lygdir, bist ad eingum tín, F. s. s. f. þ.

9. Heidur, ást og hlýdni svinna, hneigdu skárst til foreldra þinna, lát ei þjást ad þægja og inna, þeim gédrækni fróma, s. þ. s. Mest og dást í mædu ad hinna, minnstu launin sín, F. s. s. f. þ.

10. Yfirsettum virdíng veitir, vinskap réttum aldrei breytir, sorgarmettum síst ad=hreitir, set þig ei til dóma, s. þ. s. Heilsu flettum hægdar leitir, hugnad aumum sýn, F. s. s. f. þ.

11. Gömlum æru gjarnan tjáir, Gud vill hærum kannské náir, þér hug kjærum þeirra sáir, þar sem dygdir ljóma, s. þ. s. Vork=un=sær, um lúa ei láir, lífs þó qveini sýn, F. s. s. f. þ.

12. Hóf og spörn á hverju tægi, haf, svo þörfu ei sídar bagi, þackargjörn þó þörf=

in agi, þygðu vatn sem rjóma, s. þ. s. Mis-
leik hvern ei met sem dragi, mótgjørðunum
tín, F. f. s. f. þ.

13. Þótt þú nædir þyggja slettu, þocka-
fædi, stygd og glettu, þolinmædi þér æ settu,
þenk til seinni dóma, s. þ. s. Senn þó ræd-
ir svari nettu, sök ei lengi brín, F. f. s. f. þ.

14. Heimsins illa øfug dæmi, upp að
fylla, þér ei sæmi, þó eins villa vítum flæmi,
verk og tal hins fróma, s. þ. s. Vart að-
grilla veit hinu slæmi, vel hvar dygdin skín,
F. f. s. f. þ.

15. Sannleik reyn í sagna grúa, sokum
þeim til góðs að snúa, jafnan sein að taka og
trúa, tali sqvaldurs lóma, s. þ. s. Brestum leyn-
ir bragna og frúa, bót ef þøgn er sýn, F. f.
s. f. þ.

16. Flýðu stjá vid falska og káta, felst ei
þá er mikið státa, víktu frá þeim vanka láta,
vols og késkui gróma, s. þ. s. Þessir fá sinn
glamm að gráta, gyrnst ei þeirra vín, F. f.
s. f. þ.

17. Gjæfu spár af góðum þyggir, gudleg
tár ei frá þér styggir, er þeim skár, að und-
irliggir, enn purpura af Róma, s. þ. s. Lífs
um ár þau að þér tryggir, æ þeim hefudið
krýn, F. f. s. f. þ.

18. Þocka ſnidug þinna vanda, þriſin, ydug, verkin handa, víka lidug, víls án anda, volgur lát ei hljóma, ſ. þ. ſ. Hraks vid klidur hyrd ei ſtanda, hend ei møk vid ſvín, F. f. ſ. f. þ.

19. Varaſt þú frá bygd ad buga, baki ſnú vid þeim ei duga, ferſkum bú ad frómleiks huga, ſis vyıdandi Nonra, ſ. þ. ſ. Legg ei trú vid lauſmáluga, limſkum kjænſku ſýn, F. f. ſ. f. þ.

20. Forſmá ei þá máttar minni, minnſtu ad ſleigja ſtoltu ſinni, og burtſveia øfundinni, øllum gyrnſtu ſóma, býr, heill og blóma, lærdu ad deya lyſting þinni, liſid fyrri enn dvín, F. f. ſ. f. þ.

21. Pitt hid hjarta lítilæti, leidi ſkart á audnu ſæti, minnis art og menta gjæti, myndádu líf til gróma, ſ. þ. ſ. Audmjúkt hjarta vánga væti, varmt í Guds augſýn, F. f. ſ. f. þ.

22. Kéyptu haginn qvøld-ſtundanna, kjænt vid blæinn árgeiſlanna, ſenn ber daginn ſól til hranna, ſetſt ad húmid gróma, ſ. þ. ſ. Magnadu fræin mannkoſtanna, medan ljóſid ſkín, F. f. ſ. f. þ.

23. Fodur rádin þygdu þeſsi, þig ſvo dádin øblug hreſsi, Drottins nádin dýr inn-

pressi, bygdir þér sem ljóma, sífeldt til sóma, heims á ládi byggi, blessi, og brynji þig heillum sín, F. f. s. f. þ.

24. Jesú blódid rósar rauda, ríkt þér bjódi frelsi nauda, leidi fljódi líkn ótrauda, lasta renni dróma, og sveipi þig sóma, breyti flódi hins beiska dauda, í besta gledinnar vín, F. f. s. f. þ.

25. Hœrsti fridur heilags Anda, haldist vidur þilju banda, þrycki nidur þjósti og vanda, þreyti lyst hégóma, og sedji þig sóma, gjædsku idur Guds lifanda, geymi þig frá pín, F. f. s. f. þ.

26. Tær hólpinna trúar-glædra, tárin þinna fedra og mædra, nidja sinna audi æd-ra, yndis fundinn plóma, safni þér sóma, krapti og hinna Kristí brædra, klár í Guds augsýn, F. f. s. f. þ.

27. Farsældanna finndu gengi, fridsæld-anna kjörin lengi, vinsældanna val hjá meingi, vörn englanna fróma, sigur og sóma, lof-sældanna fórn og fengi, fegri enn sól í Rín, F. f. s. f. þ.

28. Mín svo ræda myndug standi, minn-is klæda hrind árnandi, lífsins hæda lind ylmandi, líf þitt reisi blóma og sannhelgra

sóma, ad þér hlæði á yndis landi, Elsku dótt- ir mín! Framsýnin fróma, sé fasteignin þín.

### Nafn Studull.

Sals ró : Sin ey : Su él : S,
J he : : Jm : : . J grandfr : J,
Góðfræ : G, riktu : G, ráðhø : G,
Rati æ : R : u kjø : R væ : R,
Inndrag J d : Igda hl : J,
Dáðval : Dur an : Ds lá : D,
Uns ró Um rød : Uls br : U,
Rína : : R be : R sú ei þve : R,

---

## Sumar gjøf.

Sem á sæðis bólin, Sumarið skín, um lífs og lucku hjólin, leiptri þín, sæl réttlætis sólin, systir kjæra mín.

2. Hressíst æ þinn hagur, heims á grund, æru og yndis fagur, alla stund, rími ranna slagur, ríki dygð í lund.

3. Eptir æfi tíðir, allar hér, dýrðar dagar blíðir, dilli þér, þar sætt samfagna lýðir, og Sumarið aldrei þver.

## Sumar vísur.

Qvíknar landa kjæti senn, kéfur drift á túnum, svalbaugs andar sætir enn, síuum lypta brúnum.

2. Happa slagur hendir sveit, hastar náð innsljóti, bjarnar-dagur bendir reit, brosir láðin móti.

3. Vetrar qvída vindur þraut, viður glansar skógur, kjarna hlíðar kind uppskaut, qvikur dansar plógur.

4. Af liljunum elli brá, aldin falda ljósa, heið-geislunum hellir á, hlýrnis tjalda Rósa.

5. Vaka saungvar víða um reit, varmar hlýðir gróa, bakar vaungum blíðan heit, barmar fríðir hóa.

6. Sem að hasti sjónar æð, sett að skíra geingi, fagna rastir, frón og hæð, fuglar, dýr og meingi.

7. Kulda neyðar hvellur dó, kjör þau aptur seldi, Guðs vagnleiðar fellur frjó, feiti-saft um veldi.

8. Hans viðnærir handar skjól, happa fríar þrotum, allt hvað hrærir andar ból, undir skýa lotum.

9. Hann oss náda hreidur lér, hann born galla bætir, honum rádast heidur ber, hann oss alla kjætir.

---

Sumarid þegar setur blídt, sólar undir faldi, eptirá med sitt edlid strídt, andar vetúrinn kaldi.

2. Felur húm hid fagra ljós, frostid hitann erfir, væn af dupti verdur rós, vindur logni hverfir.

3. Lýdum þegar lætur dátt, lucku byrinn mildi, sínum hug í sorgar átt, sérhver renna skyldi.



# Vítaflagur.

Pítur skída þundar blær, þagnar-dals af heidi, máls til hlýda, mjøg óvær, mystri vída fyrir slær.

2. Undirbúast hærum heims, háskasamar tídir, vidur grúa klækja keims, kénnir lúa sorgar eyms.

3. Øllu standi leidir last, lucku tjón og mædi; kjærleiks andi kólnar fast, kíf í landi margfaldast.

4. Illskan rama bríst um brá, brjóst og túngur manna, hvør vill ama ødrum tjá, eingann sama gyrnast á.

5. Sundurlyndi sældar mest, sjálfs elskunnar víti, upp sú kindir allann brest, eins og vindi bál æsist.

6. Kann ei líða kul á mót, kjør-vyrdíngu sinni, lætur svíða hefndar hót, hvar sem þíða fann ei rót.

7. Fyrir ómæta søk er sátt, svipt á augabragdi, forsug þræta fellur dátt, fridinn græta þykir smátt.

8. Mannskap halda meingjørn þý, mýslugana ad sigta, sjálfs Ulfalda svelgja frí; sinnid kalda lýsir því.

9. Þycki brygd á þocka sid, þræll fyrir gódum manni, eina stygd er áhlaupid, eingra dygda vidgétid.

10. Hans útmálad heyrist brot, hætt sem orka skyldi, undir hálast æru rot, edur sálar heilsu þrot.

11. Agg og þrá um eyr sem gull, ydka menn af létta, gífra, já, um geitar ull, gamni hjá er þyckjan full.

12. Allshættad til ólempis, æglyndir sér sinna, víta hvad sem væri slis, veifa nad, ef bærist fis.

**13.** Hendi frómann feil um sinn, framar víſu rádi, þad ſkal hljóma út og inn, eyds med dóma ſkak-vidinn.

**14.** Hann beryrda hvar ſem ſtár, heyrnar vídt um ſæri, dygd hans vyrda hunds vid hár, hitt án kyrda laſtid gár.

**15.** Makar þetta mannords ſting, morgum ver enn ſkyldi, gremur þetta gédſæring, géfur ſlétta leidrétting.

**16.** Málid ſvinnu mjúkt og hægt, mót ſér líku veitir, ſqvaldurs ſinnu ſkapid ægt, ſkjaldan ſinnur ſvar einlægt.

**17.** Svoddan vída ſannar þjód, Salómonis ræda, ordid ſtrída eyſir hnjód, andſvars blída fordar móð.

**18.** Svo ſem neiſtann magna má, med adblæſtri hordum, líkt útkreyſtann lýdir fá, lítt ef geyſtann hrækt er á.

**19.** Þínum munni þetta tvennt, þó í raun afkémur, ſáttum unnir ſú er ment, ſamvitſkunni betur hent.

**20.** Hvad þú vildir hlotid fá, hilliríkt af odrum, ſama ſkyldir ſjálfur tjá, ſvoddann ſnildir hepta þrá.

**21.** Þú villt bródur heyra þinn, hafdu ſlíkt vid adra, veikum bródur vægdir inn, vef í tjódur laſtyrdin.

22. Þér ef sánkar þyckju, lost, þinn útþrópi lýdir, láttu ei vánka kífs vid kost, kylltu þánka bríxlin host.

23. Þinnar æru, þú ef kís, þock og virdt af meingi, hinna skjærum heidri lýs, hyllisær um þeirra prís.

24. Qvis, álýgi, kals og bann, kjósa viltu eigi, varast því ad vondskap þann, vidur drýgir nockurn mann.

25. Kífs ef sólin kunna þér, kynda móð, svo vakni, reynslu skólinn, reidi-hver, renni ei sólin bjort undir.

26. Stillir ama, styrkir ró, stoduglyndid hreina, qvillasama hefnd afhjó, hylli-frama laungum bjó.

27. Þolinmædi þjáir stygd, þolinmædi vinnur, þolinmædi þróar dygd, þolinmædi sóar hrygd.

28. Þolinmódur eblgum er, ágjætari fundinn, vænni hródur vinnur sér, vígs enn gódur kappi hver.

29. Forprís Davíd fékk af því, fordum tíd, er þoldi, helju krafid, hefnda frí, heiptar skrafid Simei.

30. Móses, Júda fólsku far, fast og tídum reindi, mindin prúda manngjæsdar, millum flúda seglin bar.

31. Jósephs dygda fráð er flug, framm þó seldur væri, undir hrygda beyskann bug, brá ei trygda sostum hug.

32. Jobs er tíðum hrósað hátt, helgri þolinmæði, gráts í hríðum svar með sátt, svanna stríðum gaf hóglátt.

33. Tobías eyrði friðnum fast, fyrðtur vina geingi, sorgum dreyrði súrt. aðkast, sitt þó heyrði, gaf ei last.

34. Morðbrýrlauna reinda røgg, Ragúels dóttir fróma, síst þó vann að hefja høgg, heldur anna tára døgg.

35. Svoddan skyldu dæmin dýr, drótt-um sáttir ørfa, grand að tryldu gédi snír, gjæfan mildu fyrir býr.

36. Forsi mætti flestu sá, færst til ama gjørði, þolgjeðs hætti þó ei brá, þvílíks ætti sérhvørr gá.

37. Líka boðið hefur hann, hógværð af sér læra, þeim er voði ei því ann, allir skoði speigil þann.

38. Hvað skal þrátta hérum gnótt, heims-ins auðnu feingis, allir hátra førum fljótt, feigðar sátta ber að nótt.

39. Skyldu geya skjæðir spart, skjótt kann ønnur bjalla, þessum fleya þyt óvart: Þú skallt deya, bú þig snart.

40. Er þá qveikur æfinnar, útslockinn ad bragdi, svo sem reykur rími skar, rotnar bleikur nárinn þar.

41. Þeir sem stunda frid á fold, fridarlaunum hlíta, fridar-lunda fljótt í mold, fridad blundar þeirra hold.

42. Öllu grandi fridar frá, frelsadir án enda, fridar-landi fögru á, fridar andlit Guds þeir sjá.

43. Látum fridar rád og róm, ríkja vor á milli, höldum fridar dýrann dóm, drígjum sída skiptin fróm.

44. Blygd, hógværi, bæn og trú, blídleik, þolinmædi, elskum, kjæru Herrans hjú, hærst er æru giftan sú.

45. Verum eigi vansáttir, vorn um lítinn tíma, gráts þó vegi gaungum hér, glödum degi senn ad ber.

46. Allt er strídid úti þá, ei sem verid hefdi, drígja tídir yndis á, ama hrídir fjærri stá.

47. Berum, gódir brædur! því, byrdi hver, med ödrum, þeigi hljódir þels um bý, þolinmódir kala frí.

48. Sár þó mæti sorgin hér, sannlega verdugt eigi, þad mótlæti þeinki hver, þeirrar kjæti er eptir fer.

49. Gud oss øllum géfi nád, grid og frid ad halda, vægi gøllum, verki dád, verji føllum, styrki rád.

50. Synda grómid endi allt, andláts tómid vidur, leggi í dómi lid óvalt, lof hans hljómi þúsundfaldt.

---

## Hagrauna slagur,

kalladur

# Þagnar mál.

Er líta sýnist til ósida sumra þá hann var qvedinn, 1728.

---

Þar um gétur Þagnar mál, þrátt í gédi mínu, velmagt øll og veraldar prjál, veltir blómi sínu.

2. Vinsæld, audur, vald og magt, vitska, lán og hreysti, líffins fegurd, æra og akt, útkulnar sem neisti.

3. Hvad er verøld, hennar glis, hefd og art, sem heidist? reykur, bóla, funi, fis, fellur, hjadnar, eydist.

4. Lán er best ad lykja sig, litlum undir feldi, heimsins prýdi hégómlig, háttar senn í eldi.

5. Öll náttúran er ad sjá, ellimörkum bladin, vindar, haudur, vötn og lá, votta sinn skapnadinn.

6. Ísar hlædast yfir mold, eydist bjargar fengur, bylgjur æda, fyrnist fold, flest til þurda geingur.

7. Eldar brenna grjót og grund, grasid jardar kylur, sképnur kénna feigdar fund, fargar húsum bilur.

8. Vída skridur vinna tjón, vegu forðjarfandi, vatna-ridur fergja frón, föstum leyr og sandi.

9. Grædir ódum gremur sig, grandi skipa veldur, beinir þjódum bana-stig, bygdin skada géldur.

10. Þessu framar sækir sveit, sjáfar-abla skortur, fyrir þad sama fæst um reit, fordi matar kortur.

11. Veidi farga van-gjæftir, vindar bylgjum róta, sultur marga sundurskér, sældar vistir þrjóta.

12. Þad sem fordum þókti múr, þessu födurlandi, happa-skordum hallast úr, heill þó fridar standi.

13. Umbreyting er orðin mest, atork-unnar líka, fátæklingar finna brest, fatar nockud ríka.

14. Þéttir mædur þó sumpart, þegna fædu máti, armur klæðist og í skart, ecki rædur státi.

15. Brastar þjódin barna rík, brauds er gródinn seldur, hver amlódinn fágar flík, fast í módinn heldur.

16. Vefur klútum fálka frón, fyrdtur súta mørkum, hnappa jútur hags vid tjón, hoppar út á jørkum.

17. Reinir hortug rædu gaung, rétt í gorti smitar, æ þó skorti fædu faung, fotin sortulitar.

18. Snaudu búi bjargar ei, born og hjú-in sveltir, naumast kúa hyrdir hey, hjørd um þúu veltir.

19. Skulda seigur skipti veill, skémmir leigumála: til øreigu hrakar heill, happa-feigum gála.

20. Sumir feita sig um of, sølu beita størfum, út um sveitir kaupa krof, kosti neita þørfum.

21. Hafa réttann hunda sid, hacka mett-ir fantar, en sem þetta er uppsólgid, allt hid létta vantar.

